# SKUGGA-SVEINN

EÐA

# ÚTILEGUMENNIRNIR

SJÓNLEIKUR Í FIMM ÞÁTTUM

EFTIR

MATTHÍAS JOCHUMSSON

ÖNNUR PRENTUN, BREYTT OG LÖGUÐ

---

REYKJAVÍK
KOSTNAÐARMAÐUR: SIGURÐUR KRISTJÁNSSON
1898

# SKUGGA-SVEINN

EÐA

# ÚTILEGUMENNIRNIR

SJÓNLEIKUR Í FIMM ÞÁTTUM

EFTIR

MATTHÍAS JOCHUMSSON

ÖNNUR PRENTUN, BREYTT OG LÖGUÐ

---

REYKJAVÍK
KOSTNADARMAÐUR SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.
1898.

# FORMÁLI.

*Útilegumennirnir*, sem ósjálfrátt hafa víðast hvar hlotið nafnið »*Skuggasveinn*«, eru nú 35 ára gamlir; birtast þeir nú loks aftur á prenti og í dálítið breyttri mynd. Var fyrir löngu þörf á, að prenta leik þenna upp, því hann hefir, eins og kunnugt er, náð eigi litlum vinsældum; enda hvatti mig sjálfan til að láta prenta hann aftur sú ástæða, að eftirrit hans eru víðar en í einum stað niður komin, og með þeim, eins og auðvitað er, nokkrar misritanir, ef eigi innskot, úrfellingar og aðrar breytingar. — Þetta vildi ég fyrir löngu fyrirbygt hafa, og loks fékk ég bóksala *Sigurð Kristjánsson* til að kaupa af mér útgáfurétt þessarar prentunar, og treysti vel hans drengskap að annast útgáfuna, þótt ég sjálfur sé fjarri.

*Hvað breytingarnar á þessum leik frá hinum prentaða (1864) snertir, þá hafa þær sumpart myndast smámsaman, eftir því sem mér og öðrum, sem vit höfðu á, hugnaðist að betur mætti fara, en sumpart og mestmegnis gjörði ég breytingar á leiknum veturinn 1893. Verður nú hver að dæma um þær eins og honum rétt þykir, og mun þar sitt lítast hverjum, eins og vant er, þegar um smekk manna er að ræða. — Flestar breytingarnar eru fólgnar í því, að ég hefi stytt* eintöl *leiksins, þar sem þau virtust miður*

*nauðsynleg, því hin almenna dramatiska regla er, að sannleikúrinn sjálfur (ɔ: samtalið) skýri sem mest má verða bæði skapseinkunnir persóna og framkvæmdir, svo og alla atburði og leikslok. Liggur og þar í þungamiðja hinnar dramatisku listar. Einnig þótti og það að hinu upphaflega smíði mínu, að svo margt kom fram í leiknum, sem lítið eða ekkert studdi aðalganginn eða tafði fyrir, án þess að útúrdúra eða hvíldar væri þörf — eins og stundum fer vel í tragedíum. Annars hefir leikurinn í þessari mynd sinni þegar verið leikinn, sem sé í Winnipeg í hitt eð fyrra. Ritaði skáldið Einar Hjörleifsson og sömuleiðis séra Hafsteinn Pétursson mjög skynsamlegar athugasemdir um breytingarnar.*

*S v i ð i og b ú n i n g u m þori ég enn ekki að lýsa nákvæmlega, enda hygg að vel megi una við líkt snið á því, sem tíðkast hefir, því hér er ekki um sögulegan leik að tala, né mjög vissan tíma. Mest er í varið, að vel sé leikið. Skal ég hér að endingu leyfa mér að benda á, hvernig ég hefi hugsað mér frá fyrstu útlit helztu persónanna og framkomu eða snið.*

*S k u g g a - S v e i n n ætti jafnan að bera af öðrum bæði að vexti og útliti; rödd hans sé bæði dimm og há, en þó tilbreytileg, eins og skap hans; sína tröllarödd á hann að treyna sér svo, að nóg sé ávalt eftir, unz hann kveður sviðið. Undir niðri er hann hetja og ekki alveg fjarri öllum drengskap. Það eru örlög hans, sem gjört hafa hann að slíkum heljarmanni.*

*Ö g m u n d i breytti ég mest, því að frá honum var*

*ast gengið í fyrri prentuninni. Hann á og að vera cill maður og hraustur; hann er líka örlögum kinn, en hjá honum hefir hið betra haft jafntefli fremur.*

*Hvað Harald snertir, er jafn-vandasamt að lýsa um, sem að leika hann. Sjálfsagt verður hann að a ásjálegur og mikill yfirlits. Hann á að sameina r bæði barnið og hetjuna, en þó hvorugt um of.*

*Ástu er og mikill vandi að leika, en þó þykist hafa bætt og greitt til muna hennar hlutverk. Um ar persónur leiksins þarf lítið að athuga; þær a og flest allar verið oftast leiknar á þann sama t, sem ég hafði hugsað þær.*

*Lengstu kveðlinga leiksins þarf því að eins að gja alla þegar leikið er, á sviði, að þeir hafi hæfi- a söngrödd, sem leika.*

*Mesta list hvers leikara er, að kunna að leika lilega og þó um leið samkvæmt skapseinkunn og ásigkomulagi persónunnar. Þar til heyrir, hitta listarpunktinn, eða rétt hóf, þegar sýna skal svæsna eða hlægilega. Hið svæsna og stórfellda gur minst í ofsa og hávaða, heldur í jafnvægi stjórn ofsans. Líkt má segja um hið hlægilega, ð er minst fólgið í skrípalátum, heldur í hverju viki leikarans og jafnvel, ekki minnst, í allri hans sónu. Listin að smíða gerfi og útlit hinna leikandi sóna, er og afar-þýðingarmikil.*

*Akureyri í janúar 1897.*

*Matthías Jochumsson.*

## PERSÓNUR LEIKSINS:

Sigurður, lögréttumaður í Dal.
Ásta, dóttir hans.
Jón sterki,
Gudda, } hjú í Dal.
Gvendur,
Lárenzíus, sýslumaður.
Margrét, þjónustustúlka hans.
Hróbjartur, vinnumaður hans.
Helgi,
Grímur } stúdentar.
Geir,
Grani, } kotungar.
Galdra-Héðinn.
Skugga-Sveinn,
Haraldur,
Ögmnndur, } útilegumenn.
Ketill,
Vopnaðir menn; 2 varðmenn; vofur.

---

Leiksviðið er í 1. þætti stofa í Dal. og stofa hjá Lárenziusi; í 5. þætti sama stofa í Dal. Hinir þættir leiksins fara fram á fjöllum uppi. nema 3. þáttur 1.–6. atr. sem sýnir aftur sömu stofu Lárenzíusar. — Tíminn er fyrri hluti 17. aldar.

---

# FYRSTI ÞÁTTUR.

## I. atriði.

**Þinghússtofa í Dal; hún er með fornu sniði; föstum bekkjum umhverfis. Dyr hægra megin; hærri bekkur eða pallur fyrir gafli og borð og fornir stólar.**

**Sigurður situr við borðið og blaðar í minnisbók sinni.**

Sigurður:

Fjóra hesta í fyrra — og dugði ekki. Hvað marga í hitteðfyrra? — Sex, já sex hesta þarf ég að fá. Grasahesturinn betri en mjölvættin. **Stendur upp og gengur um gólf.** Góð eru grösin; þau eru dýrmæt, en ekki dýrkeypt; þau eru frá Guði, en ekki kaupmanninum. Maðurinn er sem gras, stendur þar, en ekki: sem *grös*. Grösin eru sífrjó, og falla ekki þó alt falli, menn og málleysingjar. Fyrst fellur grasið, svo skepnurnar: hesturinn fyrst, svo sauðurinn, svo kýrin, svo húsgangurinn, svo bóndinn, svo konan, svo barnið, svo hundurinn, svo kötturinn — það lifir lengst sem mönnum er hvimleiðast. Nei, eitt lifir og heldur lengst lífinu í öllu öðru, og það eru fjallagrösin. Í þessu árferði veitir ekki af átta hestum. Svo er ferðin lystiferð — nema eitthvað ískerist. Já, Jón minn sterki er sjálfsagt að fari.

Gvendur

**kemur í gættina og kallar óðamála:**

Hús — sýslu — húsbóndi góður — maðurinn er kominn í grænu golíati!

Sigurður:

Hvað ertu að þvaðra, drengur? Golíati?

Gvendur:

Jú víst, sýslu — golíat —

Gudda

**á bak við Gvend:**

Það lá að þú skilaðir því svona, Guðmundur! Hann átti að segja, að sýslumaðurinn væri kominn og væri að fara úr burunni eða káfínunni.

Sigurður:

Ég skal koma. **Fer að taka til í stofunni, en í því kemur Lárenzius inn.** Vertu velkominn!

---

### 2. atriði.

**Sami. Lárenzius.**

Lárenzíus:

Heill og sæll, vinur! Ég vildi sjá þig um leið og ég lýk við þingaferðir mínar í ár, búinn að vera þrjár vikur að heiman. Hefir nokkuð til tíðinda orðið síðan?

Sigurður:

Ekki það ég man. Ég er nú að búa mig á grasafjall. Ég ætla sjálfur.

Lárenzíus:

Það er rétt, í slíkri tíð er þörf að afla sér grasa. Og — og svo væri vænt þú yrðir var einhvers fleira. Ferðu langt?

Sigurður:

Séu fjöll orðin fær eða ekki verri en í fyrra, ætla ég að tjalda fyrir sunnan Fögrubrekkur við Ófærugil, eða kanske alla leið austur undir Þjófaskörðum. Ég hef Jón hérna nýkomna, svaða eða sterka, hvað þeir kalla hann, með mér.

Lárenzíus:

Ég ætlaði að segja það: Þú ert víst ekki hættur að hugsa um útileguþjófana enn þá. Þar *eru* þeir! — Ég meina austur af afréttinum.

Sigurður:

*Þar?* Það er nú máske mikils til of mikið sagt, þó minn grunur segi, að hérna megin jöklanna hafizt þeir við. En á fjárheimtum mínum er ég löngu leiður orðinn. Vopnlaus ætla ég mér ekki að fara, og fimm eða sex liðgengir verðum við, því þó ég sé sextugur eða rúmlega það, er skapið eftir og augun hef ég heil.

Lárenzíus:

Mæl þú manna heilastur! Ég er einmitt að hugsa um að gjöra enn þá gangskör að því að leita um þessi fjöll — leita af allan grun.

Sigurður:

Þetta líkar mér.

Lárenzíus:

Þykir þér það ekki undarlegt, að nú í hálfan mánuð hefir mig dreymt á hverri einustu nóttu, að ég væri að fást við hann Skugga-Svein. Hvað mörg ár eru síðan við hér urðum fyrst varir við hann?

Sigurður

hugsar sig um:

Þrjú — fjögur — Sex, nei — sjö ár munu það vera.

Lárenzíus:

Og nú þekkir hann nálega hver maður í héraðinu: gráskeggjaður gaur með hrafnsfjaðrir í hettunni og með gamlan fornmanna-atgeir um öxl!

Sigurður:

Þetta er heill flokkur; þeir hafa sést fjórir saman — allir með vopnum. En hvað sem því líður, er Sveinn höfuðpaurinn, enda höfum við á fleira að minnast við Skugga-Svein en sauðastuld hans og rán.

Lárenzíus:

Harald bróður þinn og systur mína myrti enginn nema hann!

Sigurður:

Sama hef ég ávalt sagt síðan. Þau hurfu eða urðu úti.

Lárenzíus:

Urðu *úti* — í júnímánuði! Ég var utanlands, þá

skóla, því fór alt sem fór. — Jæja, þú ferð þína leið — vopnaður, segirðu, með hvað margt fólk?

Sigurður:

Fimm eða sex karlmenn og svo eitthvað rusl í viðbót til að tína grösin.

Lárenzíus:

Far þú varlega, og trú ekki um of hug eða harðræði óreyndra — og varla Jóni þessum sterka, tal hans minnir fremur á Björn en á Kára. — Það er líka ekki sjálfrátt, hvað menn eru hræddir við þennan karlskratta, og Eiríkur minn í Efraskarði sagði á þinginu um daginn, að það væri synd að hengja slíkan afreksmann, þann eina, sagði hann, sem eptir væri í landinu! Ha, ha!

Sigurður:

Já, ekki tel ég hann nú með afreksmönnum, en voðamaður er hann, enda er því líkast, að sumir haldi að allar illar vættir séu í honum samankomnar. Ég hygg nú að hann sé laus við alla galdra og forneskju og sléttur og réttur illvirki og stigamaður. Eða hvað hyggur þú?

Lárenzíus:

Galdramál eru verstu mál, þau kann ég ekki með að fara, en — segðu mér nokkuð: Er það af vana, eða er mér það áskapað að mér verður illt, ef svo líður vika, að ekkert þjark kemur upp í sýslunni?

Sigurður:

Þær vikurnar eru víst teljandi, Lárus minn.

Lárenzíus:

Heyri ég að maður hafi gefið öðrum glóðarauga, fæ ég óðara matarlyst. Heyri ég áflog út úr þrætubletti, skánar mér tannverkur, steli maður sauðarfalli batnar mér takstingur, og heyrist húsbrot eða mannslagur fer úr mér megnasta landfarsótt! Hi, hi!

Sigurður:

Hi hi! Öllu gamni fylgir alvara. Þú varst snemma sýslumannsefni, en þá fyrst verður þú ungur í annað sinn, þegar þú sérð í hinar sauðsvörtu granir á Skugga-Sveini.

Lárenzíus:

Vertú þá fyrstur til að finna hann, en ég til að heilsa karli og handsama.

Sigurður:

Fyrirgefðu, ég gleymi gestrisninni. Viltu ekki sitja, vinur?

Lárenzíus:

Ekki er mér til setu boðið. Far heill og findu nóg grös og nóg illþýði, og kom heill heim með hvorttveggja!

Þeir fara.

---

**3. atriði.**

Ásta. síðan Sigurður.

Ásta

**kemur og sezt við borðið með sauma sína; saumar og syngur:**

Hver vill sitja og sauma

sumar nóttu á?
Burt með deyfð og drauma,
dag og líf að sjá
fram um heiðrík heiðardrög;
syngja þar við sólargætt
svanir himnalög.

Gyllir síblíð sunna
silfurhökluð fell,
hlær við heilsubrunna
heiðbjart jökulsvell;
en um hlíðar, holt og börð
unir sæl við sumardýrð
sauða fögur hjörð.

**Eftir litla þögn:**

En ef eg þar findi
æskuprúðan svein,
svo við sjafnar yndi
sitja mættum ein
sumarnótt við svalan foss.
Hver mun siðug silkirein
synja þá um koss?

**Sigurður kemur snögglega inn. en hún stendur upp.**

Sigurður
**bystur:**

»Koss« og »foss«, það kunnið þið að ríma! Hver hefir kent þér þessa kossa-vísu?

Ásta
**feimin:**

Það — það er meinlaus vísa; ég var að raula að gamni mínu.

Sigurður:

Jæa, tötrið mitt, þú tekur ekki illa upp þó ég þusist. En þó er nú annað fyrir höndum en að sitja við kvæðaskap: ég legg af stað á grasafjallið strax í dag!

Ásta

leggur höndur um háls föður sinum:

Heldurðu að þú megir ekki þusast eins og þú vilt? Æ hvað mér þykir vænt um þig, elsku pápi!

Kyssir hann.

Sigurður

spakari:

Hvaða blessuð blíðlæti; segðu mér: langar þig í nokkuð? Ég vænti að það sé færra, sem ég get látið á móti þér.

Ásta:

Nei, mig langar ekki *í* neitt; ég hef nóg af öllu.

Stendur hugsandi.

Sigurður:

Hvað viltu, elsku-barn? Þig langar víst í nokkuð? — Viltu — sykur? Viltu — skilding?

Ásta:

Mig langar ekki *í* neitt, heldur *til* nokkurs.

Sigurður:

Nú — til hvers langar þig barnið gott?

Ásta:

Ætlarðu þá að gjöra það?

Sigurður:

Ekki fyr en ég veit hvað það er, barn.

Ásta:

Þú verður að lofa mér því, að gjöra það áður en ég segi hvað það sé.

Sigurður:

Svona eruð þið, ekki nema keipar og kenjar! Vitlaus væri ég, ef ég lofaði þér að láta eftir þér, það sem ég ekki veit hvað er. Ekki nema það þó!

Ásta

setur upp raunasvip:

Nú sé ég, að Guð tók hana móður mína, hún hefði ekki verið svona; hún sem var svo góð.

Sigurður:

Nú nú! hvernig læturðu? Er ég ekki góður? hef ég ekki ætíð verið þér góður, síðan þú mistir móðurina?

Ásta

blíðari:

Æ já, þú ert góður, elsku pápi. En er ég ekki einka-barnið þitt? Lofaðu mér þessu, ég skal aldrei biðja svona aftur.

Sigurður:

Það er þá bezt þú fáir viljann þinn, vandræðaskjóðan! Hvað viltu?

Ásta

með glettni:

Gettu pápi!

Sigurður:

Fara í kaupstaðinn, vænt' ég, meðan ég er í burtu!

Ásta:

Gettu betur!

Sigurður:

Nú — mér leiðist: kaupa biskupsfrúarbeltið.

Ásta:

Gettu betur!

Sigurður
óþolinmóður:

Þú vilt — þú vilt fá kongsríki og konginn með'

Ásta:

Gettu betur!

Sigurður:

Þú vilt — þú vilt fá — löðrung!
slær hana með gómunum á vangann.

Ásta:

Jeg vil fara á grasafjallið með þér!

Sigurður:

Þarna ertu komin! Hvernig gat ég nú séð við þessu? Rétturinn þinn væri, að ég tæki nú orð mín aftur. Jæja, farðu, snautaðu; það er bezt að tröllin taki þig; þú skalt ábyrgjast, við hinir höfum annað að gjöra. Nú — því ferðu þá ekki að búa þig?

Ásta
**klappar á kinn honum:**

Kærar þakkir, pápi minn! Þú skalt ekki lengi þurfa að bíða.

**Fer.**

Sigurður
**kallar:**

Gudda gamla! Jón, og þið hin!

---

## 4. atriði.

**Sigurður, Gudda, síðan Jón og Gvendur.**

Gudda
**haltrandi:**

Ósköp kallaðirðu hvatskeytslega, húsbóndi minn, mér varð svo flennt við, að hluturinn, sem ég hélt á, steyptist úr höndunum á mér, og gigtin fór að grasséra í mjöðminni. Æ já, jeg má muna tvenna tíðina. Önnur var æfin — æ!

Sigurður:

Treystirðu þér, Gudda gamla, enn þá einu sinni til að sitja á hestsbaki með okkur fram á fjöllin, því fáir hafa kunnað að taka og tína grasblað eins og þú?

Gudda:

Ætli ég megi ekki til að reyna það; það er þá ekki skaðinn í rudda, þó ég fari. Já, ég *gat* tínt grasblað. Önnur var mín æfi — æ!

Sigurður:

Já, ég kannast við það, en farðu nú að tygja þig.

Heyrðu, það mun bezt að láta Bensa smala, en lofa Gvendi þínum að vera með okkur; hann hefir gott af því strákurinn, að vera með fólki.

Gudda

uppveðruð·

Og ekki er hann orðinn svo lágur í loftinu, hann Guðmundur. Æ! þar kom nú ein kviðan! Jeg orðlengi það ekki, að hann er í sumu falli tekinn til að slaga upp í vel hálf-fullorðið fólk. Hann á ekki heldur langt að sækja það, hann Ingimundur Hákonarson, afi hans, *gat* borið sig.

Sigurður:

Í hverju mundi Gvendur vera helzt orðinn manns maki nú?

Gudda:

Seinast í morgun át hann hispurslaust einn upp úr stífasta fjögra marka aski, hana nú, og tylli hann sér á tá nær hann vel upp á fjósbystluna; já, það getur hann drengurinn.

Sigurður:

Já, teldu nú ekki fleiri afreksverkin hans, heldur búðu þig og hann til ferðar. Það er bezt að þú sitjir á henni gömlu-Jörp, hún er þýð, þó hún sé sein, og ber þig, þó hún sé ívið hölt.

Gudda:

Já, ég býst við að þar hæfi skel tranti. Æ, önnur var æfin; — þegiðu, munnur!

Fer.

Jón og Gvendur koma.

Jón:

Hvað skal nú gjöra, húsbóndi sæll?

Sigurður:

Fylgja mér á grasafjall, eða ertu vel skóaður?

Jón:

Það skal þjónustan ábyrgjast; því að til þess er vennfólk gjört, að minni meiningu, að það passi skó g þjónustubrögð. Hvað getur líka verið meira áríðndi í lífinu, nema karlmannaverk.

Sigurður:

Þú munt nú varla kalla grasaferðir karlmannaverk, n ég meina, að ekkert geti verið þarfara að gjöra þessa lagana, en að afla sér slíkra dýrindis-búdrýginda.

Jón:

Það er sjálfsagt að gjöra hvert verk, sem húsóndinn skipar, en ekki get ég kallað búdrýgindi þremils grösin; þetta er ekki almennilegra manna matur, það er hrafna hrat handa húsgöngurum og flökkukindum. Skrattinn fjarri mér!

Sigurður
í bræði:

Sei, sei! Heyrðu Jón! Til eins ætla ég að mælast við þig meðan þú dvelur í mínum húsum: láttu þér aldrei slík orð um munn fara um fjallagrös; smánaðu hvert annað strá, sem á jörðunni þrífst, ef þú getur ekki annars þrifist; margbölvaðu magálum; skammaðu

skyr; blótaðu bolaspaði; hrópaðu vei yfir hangikjöti; bannfærðu brauð, graut, fisk, smjör, hval, hákarl, —

Jón
tekur fram í

Hákarl! Ekki mátti það minna kosta!

Sigurður:

En sjáðu fjallagrösin í friði!

Jón:

Nei, þá væri Jóni gengið, ef hann gleymdi að lesa borðsálm yfir góðum mat, t. a. m. sauðakjöti, vel hengdu —

Sigurður
tekur fram í

Já, hengdu! Hvað segirðu um að hengja með mér nokkra útilegumenn?

Jón:

Hvað hengja — fást við útilegumenn? Ja, þá er bezt að hafa annað betra en sjálfskeiðinginn í vasanum.

Sigurður:

Vopn skaltu fá — hárbeitt sax.

Jón:

Nú, ég er til í allt. Og í fastatökum og hryggspennu á ég von á, að færri fari langt með Jón, og óvíst að hann rynni, þó þú sigaðir honum á blámann.

Sigurður:

Heyr þú, Gvendur, það er bezt að þú farir með.

Gvendur:

Gvulaun, húsbóndi minn, ég verð feginn.

Sigurður:

Þið búið ykkur þá sem skjótast. Hestar eru ærri og ný-járnaðir.

Jón:

Flýttu þér nú drengtötur! Eftir Jóni þarf enginn ð reka. Annars vonar mig, húsbóndi sæll, að ég eynist ekki lakari til fylgdar í stórræðum en sumir veir.

Sigurður:

Kappann reynir ekki fyr en á hólminn er komið. En flýtið ykkur nú! Jón og Gvendur fara. Hálfgrobbinn r Jón, og líklega mestur í munninum, og skammar-ega talar hann um grösin. Það er þá *hann*, Gvendur, Judda, Ásta mín og ég, auk Ara, Gríms og Kristjáns g Tumma, en þeir hafa tjald sér. Þetta er þá liðið. Ætli það sé ekki mest undir mér sjálfum komið, ef eitthvað upp á kemur. Byssuhólkinn og lagvopn tek g með mér, og Jón saxið. En hvað segir það? Æ, við þenkjum og ályktum, en annar ræður. Nú, það er gott. Lífið er stríð og mæða. Nú það er líka gott.

Fer.

### 5. atriði.

**Stofa hjá Lárenzíus. Hún er með dyrum hægra megin, útskornum húsbúnaði, háborði inst og bríkarsæti fyrir miðjum gafli. tjöld umhverfis og skápur mikill vinstra megin. Grímur og Helgi sitja við háborðið og snúa móti áhorfendum.**

Helgi:

Það er leiðinlegt, að sá góði herra er ekki heima, þegar slíkir höfðingjar sækja hann heim; það er sannast að segja, að hér er lítill fagnaður á ferðum, alt er þurt, dautt og dofið, rétt eins og í klaustri.

Grímur:

Við verðum að vera þolinmóðir úr því við bíðum sýslumannsins á annað borð. Þolinmæðin þrautir vinnur allar. Þess utan þurfum við ekki að hafa mikil gestalæti, því stofumærin biður okkur að gjöra okkur heimakomna, og kveðst koma bráðum aftur.

Helgi:

Heimakomna! Er ekki slíkum alt sjálfboðið. Heldurðu að stúdentar frá þeim heiðarlega Hólaskóla þori ekki að impónera sauðsvörtum almúganum eins og höfuðið horfir. **Stígur fram fyrir háborðið.** Látum heimamenn heyra okkar Hóla-tvísöng.

**Grímur fer líka fram á gólfið. Þeir syngja:**

Hryndum næði,
kveðum kvæði,
kyrjum gloriá!
stoltir, státnir verum,
stúdentar við erum
Hólum frægum frá.

Bóka gyðja,
hnepta hnyðja,
hafna þér nú skal:
ástar auga rennum
upp til þín og brennum,
dís í fögrum dal!

Mærin fríða,
munarblíða,
með svo rjóða kinn
hoppar út' á hlaði,
helzt er — seg'r hún — skaði
{ Helga' ef misti eg minn! }
{ Grím ef misti eg minn! }

Helgi:

Ekki stoðar þetta! Hér er enginn durgur til að hlusta á okkar indæla söng. Hún kemur aldrei með mjólkina, hún Lipurtá.

Grímur:

Hún hefir reiðst, því þú baðst um nýmjólk, þar sem allir almennilegir gestir láta sér nægja, að biðja um vatn.

Helgi:

Af eintómri hræsni, laxmaður, því þú veizt, að enginn býður góðum gesti annað en mjólk, og þar að auki veit hún Margrét litla, að við Hólasveinar erum engir vatnskettir. En þar kemur hún! **Margrét kemur með könnu í hendi.**

Margrét
með hæversku brettum:

Heilir og sælir aftur! Ég held að stúdentunum sé nú farið að leiðast, en vona samt að mjólkin svíki ekki, því að hún er úr þrílitri kú. Gjörið svo vel.

Réttir könnuna að Helga.

Helgi:

Gefið mér í glóandi! drekkur. Þetta er sú dýrðlegasta mjólk, sem dauðþyrstur maður hefir drukkið. Réttir að Grími. Þó er sannast að segja, að engin nýmjólk er svo ilmandi, engin kúarjómi svo fagur á að líta né svo girnilegur til fróðleiks, að slíkt komizt í samjöfnuð við kvennlega fegurð, því nýmjólk verður þó aldrei annað en matur eða drykkur, hvort sem úr henni verður skyr eða rjómi, en stúlkan — hún er meira en ostur og undanrenning!

Margrét:

Ó ekki trúi ég að ég hafi nú fegurðinni fyrir að fara, þó húsbóndinn blessaður segi, að ég sé ekki svo ljót í vextinum, og gömul er ég ekki.

Grímur:

Hvað er jungfrúin gömul?

Margrét:

Getið þið!

Helgi:

Við Grímur höfum bóndaárið yfir þig, og þú ert tæpra tuttugu ára.

Margrét
skellihlær:

Slíkum var tiltrúandi að geta rétt! Því lifi ég til næstu Mikaelismessu er ég rétt tuttugu. En — meðal annara orða: er ekkert nýtt að frétta úr norðurlandinu?

Helgi:

Drotningin af Arabíu hefir skrifað biskupinum á Hólum bréf, og setur þar æði mikið ofan í við hann fyrir það, að stúlkunum hér á landi skuli ekki vera leyft að biðja sér pilta, þvert á móti lögum og landsvenju í hennar Arabíulandi.

Grímur
lágt til Helga:

Þar tókst þér upp!

Margrét:

Er það mögulegt? Og blessuð manneskjan! Skyldi það vera sú sama, sem heimsótti hann Salomon?

Helgi:

Það er dóttir dóttur dóttir hennar.

Grímur
til Margrétar:

Og þú trúir þessu?

Helgi:

Því ætli hún trúi ekki þessu? Finst þér rétt, jungfrú góð, að við piltarnir skulum bæði hafa töglin og hagldirnar í hjúskaparmálunum?

Margrét:

Nei, en ætli biskupinn skifti sér nokkuð af málinu? Reyndar hugsa ég ekki um giftingarnar, en ég trúi að þetta séu forlögin okkar vesælinga, og sá er meiri en við öll, sem sagði, að konan ætti að vera mannsins rifbein og uppfylla jörðina.

Grímur:

En hafið þið engin tíðindi að segja okkur?

Margrét:

Það voru gift þrenn hjón hérna á sunnudaginn eð var.

Helgi:

Heldur er það nýlunda!

Margrét:

Fyrst skal frægan telja, Torfa, sem sumir kalla prestslausa, og Vigdísi ráðskonu hans. Hann mátti ekki geyma það lengur — að það sagði — hm! og Björn í Hjáleigunni og Smala-Gróa, og hefðu allir svarið fyrir; nú, og Árni og Guðrún á Leiti. Ja, sú *var* nú heppin, enda sparaði hún ekki eftirgangsmunina, þó hún þykist fara hægt; það er sjaldan betri sú músin, sem læðist, en hin sem stekkur. En ekki lái ég henni það, því Árni *var* efnilegur, og aldrei skil ég *í* henni Ástu í dal, að hún skyldi fá *af* sér, að neita honum. Þið hafið kanske heyrt, að hann bað hennar í fyrra?

Grímur og Helgi:

Nei.

Margrét:

Hann skrifar eins og prent, og svo kann hann allar nótur og gloríur á Grallaranum utanbókar. Því segi ég það: Ásta má vara sig, þó hún sé dóttir hans Sigurðar lögréttumanns ríka í Dal.

Helgi:

Þetta var nú góð og blessuð upplýsing; en þekkja menn hér til útilegumanna.

Grímur:

Er hér ekki mikið talað um Skugga-Svein?

Margrét:

Það kann nú að vera! Þess vegna þori ég aldrei eitt fet frá bænum einsömul, því ég er aldrei óhrædd fyrir ólukku-karlinum. Það er sagt, að hann búi í helli hérna austur af brúnunum.

Grímur:

Hefir hann, eða þeir félegar, sézt nýlega?

Margrét:

Biðjum fyrir okkur. Þeir sjázt alt af við og við og féð er sí og æ að hverfa. Um daginn komst hún Selja-Ranka í tæri við einn, hún var að leita að sauðum, og kom heim hálf-brjáluð og með stóra kúlu á kinninni hérna — á henni en ekki á mér, og sagði, að skollinn hefði elt sig. En — verið þið nú sælir á meðan, og þakka ykkur fyrir tiltalið!

Fer.

Helgi:

Þar mistum við Möngu. Við hvað skal nú skemta sér?

Margrét
lýkur upp hurðinni:

Ég held það sé kominn galdramaður!

Fer.

Helgi:

Galdramaður! Vel og gott; látið karl koma. Grímur, við skulum standa bak við tjaldið og heyra þaðan hans egipzku speki.

Þeir fela sig, en Héðinn, Geir og Grani koma inn.

---

### 6 atriði.

Galdra-Héðinn, Geir og Grani síðan Helgi og Grímur.

Galdra-Héðinn
kemur inn:

Komið óhræddir inn, bjálfar mínir! Þeir koma hálfsmeikir inn á eftir honum. Sýslumaður hefir mýmargsinnis sent mér kveðju sína og sagt að hér í hans húsi skyldi mér alt til reiðu og sjálfboðið, því að ég væri sannur vísindamaður og Sólon Íslandíkus. Eða, hvað er ykkur á höndum, heilla-Hrólfarnir?

Grani
til Geirs:

Nú er bezt að ég tali. Til Héðins: Svo er mál með vexti, að við erum hér komnir í því skyni að reyna þína kunnáttu, því að við höfum heyrt að þú kunnir þá egipzku speki.

G.-Héðinn:

Egipzku speki! Þið kunnið þó að nefna það; en haldið þið að sú list sé auðfengin eða auðkeypt eða að hennar megi njóta nema verðugir?

Grani:

Hefir þú lært í svartaskóla?

G.-Héðinn:

Það kynni nú að vera! Ekki nema í 18 ár, 18 daga og 18 tíma betur!

Grani:

Þektirðu þá hann Sæmund fróða?

G.-Héðinn:

Við útskrifuðumst báðir í einu. Það ár sluppu allir út. Sæmundur heitinn gekk síðastur, því hann sat sem sé neðstur.

Grani:

Á, sat Sæmundur neðstur?

G.-Héðinn:

Já, því hann var lærðastur. Þar gengur sem sé öll virðing niður á við, en ekki upp.

Grani:

Það var að tarna!

G.-Héðinn:

Meistarinn hafði þann sið, að grípa í þann, sem síðastur gekk út úr skólanum, en Sæmundur sá við

lekanum og hafði lagt yfir sig eins margar skikkjur og tröppur þær voru, sem upp skyldi ganga. Nú greip meistari í Sæmund í hverri tröppu, en hélt eftir jafnmörgum skikkjum, og snöggklæddur komst hinn upp, og á tómri skyrtunni slapp hann.

Grani:

Það tókst heppilega; en elti hann ykkur þá ekki, úr því þið strukuð frá honum?

G.-Héðinn:

Við syntum á sel.

Grani og Geir:

Syntuð þið á sel?

G.-Héðinn:

Og selurinn var höfuðpaurinn sjálfur.

Grani:

Því hefðum við varla trúað, að þú værir svona forframaður.

G.-Héðinn:

Og þess vegna áskil ég mér alt, og respekt og peninga fyrir mína kunst og kunnáttu. Eða, hvað er ykkur á höndum, piltar sælir?

Geir:

Tala þú, Grani.

Grani:

Svo er mál með vexti, að útilegumenn eru hér á fjöllunum, sem stela og ræna fé okkar, og við megum

ıldrei vera óhræddir fyrir. Viltu nú ekki hjálpa okkır til að gjöra okkar kindur ósýnilegar, eða segja sýslunanni og okkur hér í bygðarlagi, hvar þessir vargar haldi il, svo að þeir verði fundnir, hengdir og handsamaðir yrir fítons kraft og fulltingi.

Geir:

Við skulum gefa þér krónu.

G.-Héðinn

**bystur:**

Fyrir krónu get ég gert þig að einum urðarketti.

Geir:

Æ, monsér minn, þá vil ég heldur gefa þér tvær af fátækt minni.

Grani:

Og ég skal gefa þér aðrar tvær.

G.-Héðinn

**með spekingssvip:**

Fyrir átta krónur frá báðum skal ég koma þeim fyrir kattarnef, en minna býður enginn gamla Héðni.

Grani:

Jæja, ég lofa þér þessu með samskotum hér úr sama hverfi. Og galdraðu svo í gríð.

G.-Héðinn:

Farið þá þarna út í horn! **gengur öfugur og umlar með fettum og brettum, myndar stafi á gólfinu og hylur síðan andlitið með kofra sínum og raular:**

Kondu, kondu Kölski og kendu mér að sjá
ferlegu fólin á fjöllunum há.

Ferlegum fólum mig fýsir að ná;
ófreskis augun mín upp set ég þá. —

Þarna — þarna sé ég þá saman í lág
við holan hellismunna und hamrinum blá.

Fjórir sitja saman og svartur er einn,
Það sé ég og það sé ég, að það er — Skugga-Sveinn!

**Eftir litla þögn:**

Komin þið nú hér, bjálfar! — Hérna er sinn ginfaxinn handa hverjum ykkar. **Fær þeim sinn blaðsnepilinn hvorum.** Ef þið hafið þessa á brjóstinu verður enginn útilegumaður ykkur að skaða. Og hér hafið þið egipzkt íbisduft, sem þið dreifið yfir hverja ykkar kind einkum við rófu og eyru, og munu þær þá úr því fá að vera í friði. En hvar útilegubælið er, þá er bezt að ég gefi sjálfur sýslumanni skriflega tilvísan þar að lútandi. Og farið nú í friði. **Geir og Grani kveðja Héðinn og fara.** Þessir eru mín útvalin verkfæri.

**Helgi og Grímur hlaupa fram og toga G.-Héðinn á milli sín og hrista.**

Helgi:

Alfa, beta, eta, seta, þeta, meta, teta, jeta!

Grímur:

Egiptína, Evangelína, Epjópína, absúrdína!

Helgi:

Ginfaxína, kvadratína, krambúlína!

G.-Héðinn

**hræddur.**

Sleppið, sleppið, sleppið!

Helgi:

Hérósólíma, Hispanía, Hímaldína!

Grímur:

Superlativus, infinativus, ablativus!

G.-Héðinn
enn þá hræddari.

Galdrið mig ekki! Ég er meinlaus rýja, kann ekkert að ráði, þekki ekki nema fáeina meinlitla stafi!

Þeir sleppa honum.

Helgi:

Þarna eru dyrnar, Galdra-Héðinn:

G.-Héðinn
hnegir sig djúpt:

Æruverðar dyr, herra minn!

Helgi:

Abi, domine frater diabóli!

G.-Héðinn
í dyrunum:

Segið þið, spjátrungar, sýslumanni að Sólon Islandi-us sendi honum sína sann-föðurlegu kveðju.

Fer.

Grímur:

Ein kostuleg kómedia! Þarna sést hvað slíkir kunna! Gapastokkurinn hæfir galdramönnum fremur en gálgi eða galdrabrenna.

Helgi
syngur:

»Integer vitae, scelerisque purus

non eget Mauris jaculis neque arcu,
nec venenatis gravida sagittis,
Fusce, pharetra«!

Lárenzíus kemur inn.

---

### 7. atriði.

Sömu. Lárenzíus.

Lárenzíus:

Hér eru þá gestir fyrir. Verið velkomnir!

Grímur og Helgi:

Sælir verið þér!

Grímur:

Við vildum ekki fara svo norður aftur að við tækj um ekki frá yður bréf og kveðjur.

Lárenzíus:

Verið báðir velkomnir! Svo þið eruð Hólasveinar útlærðir báðir?

Helgi:

Svo má það kalla.

Lárenzíus:

Og þér eruð sonur séra Jóns í Tungu.

Helgi:

Já Hafið þér séð mig áður?

Lárenzíus:

Nei, langt frá; ég þekki svipinn. Við vorum

ólabræður. Það var nú þá! Mikill fjörkálfur var
in. Einu sinni leysti hann mig frá pálmastiku hjá
ífa litla-kalli, því í því að hann vildi fara að pína
ig, kallaði Jón upp í ofboði: Það er kviknað í kirkj-
nni! — Til Gríms. En yður þekki ég ekki.

Grímur:

Ég heiti Grímur og er sonur Auðuns bartskera í
.si.

Lárenzíus:

Nafnið kannast ég vel við. Margrét ber öl og krúsir borðið og fer Er alt tíðindalaust úr Norðurlandi?

Helgi:

Alt mannheilt og ósjúkt, nema hart árferði.

Lárenzíus:

Nú, vel er það. Annars tel ég ekki alt með tíð-
ndum, ekki harðæri, því á því er von annaðhvort ár;
kki góðæri, því á því ætti að vera von hitt árið; nú,
nannalát ekki heldur, nema vofeifleg séu, því lögmáli
lauðans hlýða allir einhverntíma, þó engu öðru hlýði,
ivo í því falli sé ég ekki neitt sögulegt. Nú, land-
arsóttir, — þær vænti ég sé tíðindi, og þó ekki, því
innaðhvort batnar mönnum eða ekki, og í hvorugu
alli sé ég neitt sögulegt.

Grímur:

Þér hafið heyrt húsbrotið í Hlíð?

Lárenzius:

Húsbrot! Nei, þar koma tíðindi. Segið mér sælir. Hvenær? Hvernig?

Grímur:

Það var alveg nýskeð. Hann Stígur, húsbóndinn hrökk upp um nótt við hark og bresti úti; stekkur fætur, — enginn karl þar heima nema hann, — opna bæinn, fer út — og kemur ekki aftur.

Lárenzíus:

Gott!

Grímur:

Já, miður hefir bónda þótt það gott; því þega konan loksins kom út og þorði að gá að honum, ligg ur hann bundinn hjá hestasteininum á hlaðinu, blá og blóðugur með stein fastan í munninum. Skemman mölvuð upp og öllu úr henni stolið.

Lárenzíus:

Dágott!

Grímur:

Hörmulegt, vilduð þér segja. Maðurinn lá dauð vona, hafði sagt, að hann hefði barizt við Skugga-Svein þar á hlaðinu, en þegar hann átti sem mest að vinna hafi annar bannsettur ár, lítill og mórauður, stungi sig í bakið, og um hann hafi hann oltið, þegar hann féll.

Lárenzíus:

Jeg segi enn, dágott, því þar skar eitthvað úr. Litl árinn er Ketill skrækur, sem líka þekkist.

Helgi:

Já, já, hann er alkunnur líka, hann fylgir stóra

antinum eins og sótmórauður rakki eða sauðsvartur ıppvakningur. En hvar ætlið þið að bæli þeirra eða ıellir muni vera?

Lárenzíus:

Nú í nokkur ár ætla flestir, að hæli þeirra muni rera hérna megin jökla. En vitið þið piltar, að við ıér erum í tilbúningi, að leggja í sjöttu leitina. Hvern reg ætlið þið að fara norður?

Helgi:

Kjalveg; þó ekki ætíð veginn, ef bjart veður er, því okkur fýsir að skoða fjalllendið, sjá Hveravelli, Hvinverjadal og kannske finna Þórisdal.

Lárenzíus:

Ef þið nú, góðir sveinar, vilduð gjöra lykkju á leið ykkar og hverfa hingað ofan aftur með nýja hersögu og segja mér, að þið hafið séð bæli þeirra Skugga-Sveins, þá skylduð þið hvorki fara sæmdum sviftir né gjafalausir norður og heim til ykkar átthaga.

Helgi:

Enginn skyldi þeim piltum óþarfari verða en ég eða Grímur félagi minn, ef auðnan skyldi veita okkur það eftirlæti, að finna þeirra fylgsni.

Grímur:

Því fer miður að til þess eru lítil líkindi, en fara munum við allra ferða okkar fyrir hræðslu sakir, enda erum við báðir nokkuð vopnaðir, og vel ríðandi erum við.

Lárenzíus:

En varlega skuluð þið samt fara um reginfjöll, fara hvergi all-langt af leið, skilja ekki við hestana og hafa þá jafnan týgjaða og til taks, ef á þarf að halda.

Helgi:

Ekki hræðast Hólasveinar hverja herkerlingu.

Lárenzíus:

Nú vil ég þá drekka ykkar velfaranda minni. **Tekur bikar í hönd.** Það hefir í frá upphafi verið mín köllun, að eiga í þjarki og þófi við alla réttarins óvini. Enda líður sjaldan svo vikan, að ekkert sé um að vera í minni sýslu. Frá Árna er stolið í dag, en Bjarni kærir sitt glóðarauga á morgun, Gissur eða Glúmur, galdra gjörninga hinn daginn. Fjórða daginn fljúgast menn á út af þrætubletti og fimmta daginn — nú, nóg um það, en svona gengur það. Jeg vil ekki tefja ykkar för, heldur drekk ég nú ykkar skál, biðjandi að heilsa öllu heiðursfólki í norðurlandi, og árnandi ykkur frægðar og frama!

Helgi og Grímur:

Þökkum fyrir! Þökkum fyrir!

**Allir drekka og kveða:**

Fram til regin-fjalla,
fram í snarpan styr;
sjáum skína skalla,
skoðum sólardyr.
Nú skal skrækur skjálfa,
Skuggi kyssa völl,
vegum varg og bjálfa,
vinnum hamra-tröll!

**Þeir fara.**

# ANNAR ÞATTUR.

---

## I. atriði.

**Öræfi á fjöllum; hálf-dimt af þoku. Ásta er að klifra niður háan klett.**

**Ásta, síðan Haraldur.**

Ásta
**hrædd og hljóðandi:**

Hjálpið mér! hjálpið mér! Æ, ég misti fótanna! Æ, Drottinn minn! ég hrapa! æ, faðir minn! Ég vil ekki deyja — vil ekki deyja! Ég er svo ung! Ekki deyja! Faðir vor — Faðir vor, þú sem — — **Í sama bili kemur Haraldur og þrífur hana í fang sér í því hún segir seinustu orðin. Hann leggur hana fyrir, en hún er fallin í ómegin.**

Haraldur:

Lifnaðu við! lifnaðu! deyð' ekki! **hagræðir henni og reisir hana við, en hún hnígur út af.** Deyð' ekki, segi ég, deyð' ekki! þú skalt ekki deyja! — Þar opnast augun!

Ásta:

Hvað er þetta? Hver er þetta? Hvar er ég? Dó ég ekki? Lifi ég ekki? —

Haraldur:

Jú, þú lifir, og þetta er ég; ég náði í þig, þega
þú ætlaðir að detta.

Þokunni fer smátt og smátt að létta.

Ásta
litast um:

Nú man ég. Guði sé lof. Hjálpaðir þú mér? —
Hver ert þú?

Virðir Harald fyrir sér, en er hálf-hrædd.

Haraldur:

Ég heiti — — ég má ekki segja til mín? En ég
veit, hvað þú heitir.

Ásta
hrædd:

Ertu útilegumaður? öruggari. En ég veit þú gerir
mér ekkert fyrst þú hjálpaðir mér. Hvaðan ertu?

Haraldur:

Hann faðir þinn lætur hengja mig, ef hann nær
mér, því ég er með útilegumönnum hérna á fjöllunum,
og þeir taka féð frá sveitafólkinu.

Ásta:

Þú að vera útilegumaður? Hvað heitirðu?

Haraldur:

Segðu það þá ekki — lofaðu því.

Ásta:

Því lofa ég þér.

Haraldur:

Ég heiti Haraldur.

Ásta:

Haraldur, það er almennilegt nafn. — Nei, hvar tjaldið? Ég er hrædd við þig. Trúirðu á Guð?

Haraldur:

Jú mikið, en aldrei á hann Skugga-Valda; Ögmundur segir, að hann sé óvættur.

Ásta:

Hver er sá Ögmundur?

Haraldur:

Ögmundur fóstri minn hérna á fjöllunum.

Ásta

við sjálfa sig:

Þá er hann ekki með honum Skugga-Sveini. Hún lítur í kringum sig; til Har. Í hvaða átt er tjaldið okkar, veiztu það?

Haraldur

bendir:

Það er þarna, skamt í burtu, hinumegin við klettana. Þið tjölduðuð við Ófærugil.

Ásta:

Eru engir slæmir útilegumenn nærri?

Haraldur:

Slæmir? hvernig slæmir? Þeir — þeir eru langt burtu héðan og sjá okkur ekki. Ertu hrædd?

Ásta:

Ætlarðu að vísa mér leið til tjaldsins míns?

Haraldur:

Já, en ég má ekki finna hann föður þinn.

Ásta:

Þekkirðu hann föður minn?

Haraldur:

Hann heitir Sigurður í Dal, og ég veit hvað þú heitir, þú heitir Ásta og ert dóttir hans; og svo veit ég hvað þú ert gömul? 19 ára?

Ásta:

Hvernig veiztu þetta? Hefirðu verið í bygð?

Haraldur:

Ég þekki alla bæina í þinni sveit; þeir sjást allir af Svörtugnípu. Og hérna um daginn sá ég ykkur öll af henni Bröttubrún, þið voruð að reka lömb.

Ásta:

Skyldi það hafa verið þú; ég sá einhvern mann eða tvo menn einu sinni; við héldum að það væri grasafólk. Seinast sá ég einn standa uppi á Selfelli og horfa ofan í dalinn.

Haraldur:

Það var ég. Og svo læddist ég langt ofan með gilinu og heyrði að faðir þinn var að tala um útilegumenn, og sagði: »Svo þú treystir þér, Jón sterki, að takast á við Skugga-Svein«.

Ásta:

Þekkirðu Skugga-Svein? Þú ert þó ekki með honm, vona ég? Segðu mér satt, ertu hans maður?

Haraldur:

Já, jeg hef verið með honum, en nú ætlum við gmundur að fara frá honum og Katli.

Ásta:

Hvar eigið þið heima?

Haraldur:

Það má ég ekki segja, því þá yrðum við fangaðr, og þá svíkur okkur hann Skuggavaldi.

Ásta:

Hvar á hann heima?

Haraldur:

Í Þórisdal og gjörir þokuna.

Ásta:

Hver hefir kent þér þetta?

Haraldur:

Hún fóstra mín í Ódáðahrauni.

Ásta:

Trúa hinir útilegumennirnir á Guð?

Haraldur:

Ögmundur trúir á hann og segir að ég skuli líka gjöra það, þegar ég kem í bygðina.

Ásta:

Hefir þessi Ögmundur kent þér nokkuð gott.

Haraldur:

Já, ég kann Ljómurnar, morgunvers, kvöldvers og Maríuvers, vetrarþulur og sumarþulur.

Ásta:

Hvernig byrjar vetrarþulan þín?

Haraldur

þylur barnalega og með undarlegum áherzlum:

Fækka fer um veiði,
fönnin byrgir heiði,
tröll og voða vættir
vaka nú við gættir,
dynur í draugafelli,
dimm er nótt í helli,
kenni ég til í kauni,
kalt er nú í Ódáðahrauni.

Ásta:

Þið eigið daufa æfi. Hvað svo?

Haraldur:

Enginn yljar svanni
útilegumanni,
undir Arnarfelli
á ég bygð í helli;
harðna fer um forðann,
fellihret á norðan;
grimt er hel á hjarni;
hlúðu, skolli, vel að þínu barni!

Ásta:

Seg mér heldur eitthvað úr sumarþulunni.

Haraldur:

Sólin skín á tindana,
sóley gyllir völl,
lömbin renna um rindana,
roða slær á fjöll.
Hó hó og hal!
hjarða fegurst val;
sækja skal nú sauðina
hans Sigurðar í Dal.

Ásta:

Þetta er nóg. Við sjálfa sig: Hvað á ég að segja? Ég verð að aðvara hann. Hátt: Veiztu ekki, að það er hættulegt og ljótt að vera útilegumaður?

Haraldur:

Ljótt á vetrum, en gott á sumrum.

Ásta:

Vildirðu ekki komast í bygðina? er þar ekki betra?

Haraldur:

Þar er fallegt, en er ekki fólkið í bygðinni íllt? Er það ekki alt af að brenna menn og hengja?

Ásta:

Nei, þar er betra fólk en þú þekkir; þar er miklu betra að vera en hér. Þar ættir þú að búa, eiga fallegan bæ og búgarð, og vera sjálfur húsbóndi, ríða til

kirkju fögrum og fljótum hesti, bera skrautleg klæði, eiga laglega konu og — fara í veizlur, og heyra í klukkunum.

Haraldur:

Já, ég hef heyrt í klukkunum og þær segja: bim bim!

Ásta:

Hvenær hefurðu heyrt klukknahringing?

Haraldur:

Á hvítasunnu í vor gekk ég fram á gnýpuna fyrir ofan Dal og horfði niður yfir héraðið. Veðrið var fagurt, þokulindar í hlíðunum, túnin orðin græn og reykur stóð beint upp frá hverjum bæ. Fólkið var að ríða til kirkjunnar, ég taldi tíutíu hesta; svo hringdu klukkurnar: bim — bim — bim, sögðu þær, en sumar: dindin dó — dindin dó.

Ásta:

Langar þig ekki opt til þess að verða frjáls?

Haraldur:

Jú, getur þú útvegað mér frelsi?

Ásta:

Æ, því er ver og miður, ég sé engin ráð til þess eins og stendur, en ég skal biðja Guð að kenna mér ráðið.

Haraldur
með fjöri:

Ég vil komast í bygð; ég veit að þar er betra að

vera, eða viltu ekki — ætlar þú ekki að hjálpa mér og kenna mér?

**Það er hóað nokkuð langt í burtu. Ásta hrökkur við.**

Ásta:

Þar hóar faðir minn! Farðu, forðaðu þér, annars verður þú skotinn eða fangaður.

Haraldur
**ákafur:**

Hvenær kemst ég þá af fjöllunum? Æ ég vil komast í bygðina! Ég vil fara með þér!

Ásta
**í þönkum:**

Það er ómögulegt — nei, ómögulegt!

**Það er hóað hátt og lengi.**

Haraldur:

Sé ég þig þá aldrei aftur?

Ásta:

Læðstu um lágnættið í nótt nálægt tjaldi okkar, en ekki of nærri. Ég mun vaka og líta út úr tjaldinu, og benda þér, ef allir eru í svefni, en bendi ég ekki, máttu ekki sjást við tjaldið. Nei, — kondu ekki fram fyr en þú sérð mig fyrir utan tjaldið. **Það er enn hóað og mjög nærri. Ásta hóar á móti.** Vertu sæll, Haraldur! Guð launi þér lífgjöfina.

Haraldur:

Verð ég að fara? Vertu sæl!

**Ásta réttir honum hendina.**

Haraldur:

Á ekki að kveðjast með munninum?

Ásta:

Ójú, bæði með hönd og munni. Kantu að kveðja? Hvernig heilsist þið og kveðjist á fjöllunum?

Haraldur

barnalega:

Við heilsumst ekki á fjöllunum.

Ásta:

Svo? Þið kunnið ekki að heilsast og kveðjast með kossi?

Haraldur:

Heitir það að kveðjast með kossi? Hvernig er það?

Ásta:

Vertu sæll! segjum við.

Haraldur

kyssir hana:

Vertu sæl! Á ekki að kyssa oftar?

Ásta:

Nei! — nei! jú — nei — jú! —

Hleypur út til hægri. Haraldur horfir á eftir henni.

## 2. atriði.

**Heiðarbrún milli kletta; öðru megin »beinakerling«. Sviðið viplíkt að öðru leyti.**

**Helgi og Grímur koma, girtir sverðum undir reiðkápum.**

Helgi:

Hvílík ljómandi útsjón! Sérðu dalinn og héruðin — þarna langt — langt burtu!

Grímur:

Mikil undur! Er þarna Ódáins-akurinn!

**Þeir syngja.**

Látum af hárri heiðarbrún
ljóshraða svífa sjón
sviptigið yfir frón!

Og sigi elfdur andi vor
*profanum prophetam*
prettvísan Bíleam.

Signandi þig, vor fósturfold!
sannleikans sigurspár,
sendi þér Drottinn hár!

Blessaða land, á brjóstum þér
þiggjum vér þrótt og líf,
þægindi, skjól og hlíf.

Hvað er svo frítt, sem faldur þinn
heiðskærum himni mót
hlægjandi, jökulsnót!

Mjúklega fer um móðurbrjóst

grænleitur, gullofinn
guðvefjar-möttullinn!'

Líf þér í æðum örvi hver
rún, sem að röðullinn
ristir á faldinn þinn.

Drjúpi þér náð af himinhæð,
glitblóma gullin-tár
gráti þér friðsælt ár!

Fossar þér lesi forna rún
um Þór, er þussa lið
þrymjandi hamast við.

Brotnandi unn þér bendi hver
hverflyndi heimsins á,
hræði þér svefn af brá.

En hverja helga himinrún
börnum þín um fram alt
ætíð þú kenna skalt.

Helgi:

Nú vantar ekkert á góða skemtun nema einn eða tvo útilegumanna durga, til að skella á sniðglímu eða hnykk!

Grímur:

Farðu hægt. Mig dreymdi í nótt úlf og urðarkött, sem voru að elta okkur. Kanske einhver úlfhéðinn sé hér ekki fjærri. *Litur út.* Þarna eru klárarnir kyrrir. En því stendur hann Faxi minn? Þykir honum snögg-

ent, eða er hann hræddur við útilegumenn? Jú, þarna ær hann lystina.

H e l g i:

Strax tók hann Sleipnir niður; það er klár, sem ekki þarf að dekstra, hvorki til að spretta úr spori né aka sér tuggu til hressingar.

G r í m u r:

En Sleipnir þolir þó ekki langreið við hann Faxa, þótt hann vinni á sprettinum.

H e l g i:

Hvar hefurðu séð fallegri hest en Sleipnir?

G r í m u r:

Jeg get lofað minn hest líka!

**Kveður:**

Faxi lízt mér fákur snar,
fagrar gnístra eldingar
þegar brýzt fram bitilmar,
brotna og tísta hnullungar.

H e l g i:

Hættu! Þetta er leirburður!

G r í m u r

**kveður:**

Fjörið spriklar fákinum,
freyða hniklar munninum,
fram af stiklar stórhæðum,
stoltur af miklu kröftunum.

Er þessi ekki full-góð?

Helgi:

Hún er lítið betri en vísurnar mínar.

Grímur:

Það er aðal-kosturinn við þig, að þú yrkir ekki, eða því nær ekkert, og fyrir það verður þú aldrei leirskáld.

Helgi:

Þú verður heldur aldrei leirskáld, hvað mikið sem þú kveður og kyrjar.

Grímur:

Þá get ég víst orðið þjóðskáld?

Helgi:

Nei, en þú *verður* aldrei leirskáld af því að þú ert löngu *orðinn* það — þú fæddist leirskáld.

Grímur:

Og þú — skáldaskúmur!

Helgi:

Nei, í alvöru að tala, við erum hvor öðrum betri og snjallari, og þú kraftaskáld í kaupbætir. Heyrðu, sérðu ekki beinakerlinguna? Við skulum stinga stöku þarna í legginn!

Grímur
**horfir til hægri:**

Hestarnir eru horfnir. Sæktu þá, ég skal bulla eitthvað á meðan. **Helgi fer, en Grímur tekur upp veski sitt og skrifar með stíl vísu á miða; les upp jafn-ótt og hann yrkir og skrifar:**

Yngismey, sem álög þjá,
eftir bíður sveini,
þeim er kærleiks kossi má
kveykja líf úr steini.

**Stingur miðarum í legginn í vörðunni.**

**Þessa** ginhvítu hnútu hafa eflaust sveinar Jóns Arasonar brotið til mergjar og látið í vörðu þessa.

**Sezt niður og bindur skó sinn. Helgi kemur hlaupandi.**

Helgi:

Á bak! Á bak! Útilegumenn! Flýttu þér! Flýttu þér!

Grímur

**rólega:**

Ég bind skóþveng minn.

**Ögmundur og Ketill koma. Hvorirtveggju nema staðar og horfast í augu.**

---

### 3. atriði.

Hinir fyrri. Ögmundur og Ketill.

Ögmundur

**rólega:**

Gott er veðrið, piltakindur!

Grímur

**sem er staðinn upp:**

Svo er víst, eða hverjir eruð þið?

Helgi

**beint við Ögmundi:**

Berið skjótt upp erindið, ef nokkuð er!

Ögmundur:

Lítið mun ykkur þykja erindið, en fátt er nú til fanga, eða hafið þið tómar töskurnar?

Ketill:

Þið þurfið ekki nesti norður af, þið komizt til bygða á morgun. Fáið okkur nestið! Til Ögmundar: Er mér óhætt að hlaupa á mannskrattann?

Ögmundur:

Tefðu fyrir honum skræfa! Til hinna: Gjörum skjótt kaupin, ei mun síðar vænna!

Helgi:

Reynum með okkur fyrst!

Þeir hlaupast á, Helgi móti Ögmundi, en Grímur móti Katli, og glíma'í ákefð. Ögmundur er sterkari, en kemur þó ekki Helga af fótunum.

Ögmundur:

Þú ert glíminn, drengur minn, en bráðum muntu mæðast. — Hertu þig, Ketill skrækur!

Ketill:

Hann meiðir mig, hann drepur mig! dettur, en Grímur bindur hann skjótt með snæri. Á meðan kallar

Ketill:

Jeg skal bíta!

Grímur:

Bíturðu mig, bannsettur!

Helgi:

Dugðu nú Grímur! Ilt er að fást við heljarmanninn! **Dettur og Ögmundur yfir hann.**

Grímur:

Þá er að taka til sverðsins! **Bregður og hleypur fram að Ögmundi, sem staðinn er upp og reiðir saxið, en í því þeir Helgi sækja báðir að honum, kallar**

Ketill:

Sveinn! Sveinn, og þið allir átján!

Sk.-Sveinn

**kemur æðandi með atgeir í hendi:**

Drepum, drepum!

**Helgi og Grímur hlaupa út, en Skugga-Sveinn og Ögmundur á eftir.**

---

## 4. atriði.

**Ketill, síðan Sk.-Sveinn og Ögmundur.**

Ketill

**bundinn:**

Þessu varð ég feginn. Ég vildi að þeir næðu nú töskunum, þær eru sjálfsagt fullar af sméri og feitu kéti. Skratti var hann sterkur! Ég skaðaði hann þó á annari hásininni. Skyldi hann ekki heltast? Æ, það eru svo litlar á mér tönnurnar. Aum er manneskjan: hundurinn hefir þó vígtönnur í munninum, en ég hef ekki nema smértönnur í kjaftinum; og svo er hundurinn miklu fljótari. Ég vildi ég væri hundur! Æ mér leiðist! **Veltir sér um hrygg og sær.** Komið að leysa mig!

Þeir skyldu nú skilja við mig svona! Komið þið! Komið þið! Skollinn sækir mig! Komið! Sk.-Sveinn og Ögmundur koma.

Sk.-Sveinn:

Hafið þið nú báðir skarpa skömm fyrir! Ilt er að eiga þræla fyrir einkavini, úr því ég er nú farinn að fótum.

Ketill:

Þið hafið þá ekki náð neinu. Æ, leystu mig Sveinn!

Sk.-Sveinn
leysir hann:

Stattu upp, skræfa! Rektu gemlingana, sem þarna hlaupa, heim að hellinum, og flýttu þér nú, bleyða!

Ketill:

Já, ég skal flýta mér. Gott er að njóta fótanna, fóstri hleypur, en stanzar og litur við. Það var þér að kenna, Ögmundur, þú gazt drepið annan; ég særði þó hinn á báðum násinum inn í bein.

Fer.

Ögmundur:

Óhaltur hljóp hann á hest sinn. En ekki þarftu, Sveinn, að ámæla mér, þótt ég hlypi ekki upp slíka hesta, því það var fæstra færi.

Sk.-Sveinn:

Heyr á endemi! Hvenær hljópstu' þú upp hest, sem bæði ert argur og ragur.

Ögmundur:

Tekinn værir þú og hengdur fyrir löngu, hefði ég aldrei veitt þér fylgi, enda ert þú nú mestur í munninum, og ekki óttast ég þig lengur. Aumt er að eiga engan vænni kost en fylgja þér og Katli. Ill er mín æfi!

Sk.-Sveinn:

Og verri skal hún verða, en verst að lokum! Því ekki skuluð þið ætla, að ég batni með ellinni; vitið þið ekki, að það er gamalt einkenni allra afarmenna, að þeir ergjast sem þeir eldast? En heyr nú, Mundi: Nú er mér heitt af hlaupum og bræði, og því legg ég á þig, að gálginn og fjandinn gleypi þig þann dag, sem þú svíkur mig eða yfirgefur. En meðan þú fylgir mér og heldur kjafti, máttu hjara!

Ögmundur:

Sparaðu hótanir þínar, Sveinn, farið er þér nú flest að förla nema skapið, enda áttu nú við tvo fyrir einn að skifta; við Haraldur munum héðan af fylgjast og láta eitt yfir báða ganga.

Sk.-Sveinn:

Fylgist þið og fylgist! En farinn er ég þá og feigur, ef slíkir piltar gjöra mér geig. Og aldrei hjarið þið eina viku í útlegð á fjöllum, ef þið missið mín við, hvorugur ykkar hefir þar til hálfan kjark, en sjáist þið í bygð eigið þið fá fet til gálgans, því ekki hafið þið til einskis verið með Sveini gamla. Sannið þið til!

Ögmundur:

Spyrjum að leikslokum, en ekki skal ég þína ólukku spara, ef ég kemst í færi. Og nauðungareiður var það, sem ég vann þér forðum, að segja ekki til Haraldar, enda er ég nú orðinn alráðinn í að rjúfa það heit, sjái ég fært að frelsa hann úr þínum höndum. Vertu hægur, karlfugl!

Sk.-Sveinn:

Gjör þig ekki svo gleiðan, gikkurinn! eða geymdu heift þína til haustnótta; það kann ég ykkur öllum að segja, að þetta sumar verður oss þrautatíð. Í haust er tíð að troða illsakarnar.

Ögmundur:

Engum trúnaði heiti ég þér framar. Alt of lengi hef ég nú illu lífi lifað.

Sk.-Sveinn:

Heyr aftur á endemi! Þú ert fæddur þjófur, það er þín eina dygð; þú ert göldróttur, en aldrei að gagni, og þú ert góðmenni og fyrir því gunga, rakki og ræfill!

**Skekur atgeirinn.**

Ögmundur

**mundar saxið:**

Illmenni ertu,
ilskuna hertu;
á náströnd muntú lenda
og með níðingum enda!

**Fer.**

Sk.-Sveinn

**horfir á eftir honum og lítur þegjandi í kring um sig:**

Ekki er þér að trúa. Flest gjörist nú skuggalegt — himininn líka, því nú sígur að svartaþoka. Hvað er nú? Mér sýnist rökkva meðan sól er hæðst á lofti. Ég þoli enga umbreytingu framar. Bráðar breytingar eru ellinnar ólyfjan. Ég þekki mig ekki framar. — Ungur gekk ég berserksgang, og tók mig samstundis aftur; nú þjáist ég í viku eftir einnar stundar strit. Ungur hljóp ég handahlaup yfir hundrað jökulsprungur, og kendi ekki til mæði, en nú blæs ég á sléttum velli sem sollin rolla.

**Þoka færist niður eftir fjöllunum.**

Fegri man ég fífil minn, enda mæli ég um og legg á, að enginn lifi lengur í útlegð en ég og gamli Grettir. Fegri man ég ykkur fjöll mín; við mér ungum hlóguð þið öll í heiðríkri sumardýrð, en nú svartýglist þið undir ógæfuþungum þokumekki. Ungur var ég léttur í lund sem sumarþoka, en nú er ég argur og illur sem vetrarbylur. Löng og hörð er útivistin á Íslandsfjöllum; þar þekkist ekki mildin eða miskunnin, heldur hungur og gaddur, heift og stríð. Í æsku heyrði ég talað um hlýjan hug og hjartagæði, en nú fyrir löngu þekki ég ekkert nema harðúð og kaldan klaka. — Burt, burt allur kveifaraskapur! Aldrei skal gugna — aldrei vægja, sá sem enginn vægir. Allir í mennskri mynd eru mínir svarnir fjandmenn. Er mér ekki einsætt alla að hata — alla að hata? Skapið á ég þó óbreytt enn og raustina römmu.

**Raular:**

Býsna marga hildi háð
hefi ég og þetta láð
víða kannað kalt með þel,
kólgu þolað frost og él.

Útskúfaður öllum frá
út ég lagðist fjöllum á;
við mér taka vildi ei neinn,
var svo nefndur Skugga-Sveinn.

Gekk ég norður kaldan kjöl,
kosta fárra átti völ;
bað ég eigi' um brauð né frið,
bauð ei heldur neinum grið.

Vini hef ég aldrei átt;
enginn bauð mér frið né sátt;
auðarslóð mér unni ei nein;
allir hræddust Skugga-Svein.

Þú ein bauðst mér trú og trygð,
tröllum helga fjallabygð;
dugur, þrek og dirfskan mín
drjúgum óx við brjóstin þín.

**Þegar hann kemur að síðara hluta vísnanna (að 6. er.) brýnir hann röddina og svo út.**

Niðri' í sveitum kúrir köld
kveifarskapar horuð öld,
og frjálsra manna haugum hjá
hunda-þúfum sefur á.

Þeirri hefnd og heift ég sór
og hvar sem yfir storðu fór,
barði, stal og beitti hníf,
bændur meiddi, skemdi víf.

Svo hef ég aldur alið minn,
elligjöldin nú ég finn,
fætur stirðna, fjörið þver,
förlast sjónin hvassa mér.

Skuggavaldur, skjólið þitt
skal hið hinsta athvarf mitt,
þegar feigðar-þokan mig
þrotinn villir lífs frá stig.

Bíðum við. — Skyldu þessir norðanstrákar ekki hafa snúið við aftur suður til fundar við Lárenzíus, fjandann, sem ávalt um mig situr? Þá er afarkosta von, því bælið gæti helzt fundist héðan. Eftir litla þögn. En ef ég yrði skjótari til bragðs, að heimsækja skolla, fer skemstu leið, kem þar um miðnættið, stel fyrst því sem hönd festir á, og ginni hann síðan sjálfan eins og þurs. Vel og gott! Það hlægir mig að lifa enn þá eitt æfintýr, og ilt kemur vel á vondan.

Fer.

---

### 5. atriði.

Ögmundur og Haraldur koma.

Ögmundur:

Fagurt er æfintýr þitt, fóstri sæll, en hjálp stúlkunnar skaltu ekki treysta.

H a r a l d u r :

Hverju má ég þá treysta?

Ö g m u n d u r :

Engu er að treysta, en allra sízt því fólki.

H a r a l d u r :

Því fólki? Er betra fólk til en Ástufólkið?

Ö g m u n d u r :

Það fólk mundi svíkja þig í trygðum, og þitt æfintýr verða allra vor bani.

H a r a l d u r :

Ásta bregst mér aldrei. Hún býðst sjálf til að hjálpa mér og kenna mér og koma mér í sátt og grið í öllum sveitum. Svo hjálpa ég þér, Ögmundur, og síðan —

Ö g m u n d u r :

Og síðan, segir þú, veslings fóstri! Þú gleymir því að við erum bendlaðir við Svein og allir löngu dæmdir útlagar og réttdræpir með honum. Og þú veizt ekki að Sigurður í Dal og sýslumaðurinn Lárenzíus eru okkar svörnustu fjandmenn.

H a r a l d u r :

Því eru þeir okkar svörnustu fjandmenn?

Ö g m u n d u r :

Það þori ég ekki — það get ég ekki sagt þér. — Jú, veiztu ekki að Sveinn hefir oftast áreitt Sigurð og rænt og stolið frá honum?

Haraldur:

Sérðu þá ekkert ráð okkur til hjálpar? Eigum við ɛki að flýja frá Sveini? Þú segir að hann ljúgi því ð hann sé minn faðir.

Ögmundur
hugsandi:

Þinn faðir er hann ekki. Látum sjá: hitti ég eitt-vert hæli í sumar, flýjum við frá honum.

Haraldur:

Verðum við þá að stela sjálfir? Ég vil ekki stela, eldur vera frjáls. Við lifum á fuglaveiðum; byssan ıín bregst mér ekki.

Ögmundur:

Á byssunni einni lifum við ekki lengi. En hver eit nema við gætum komizt í skip og farið burt af ındi.

Haraldur:

Okkur legst eitthvað til. Ásta hjálpar mér.

Ögmundur:

Þess bið ég þig lengst að hætta þér varlega til 'undar við hana. Mæltuð þið ykkur mót?

Haraldur:

Já, nú í nótt, nálægt tjaldi föður hennar.

Ögmundur:

Því gjörðirðu það? Það er hið mesta hættuspil.

Haraldur:

Hún varaði mig líka við föður sínum, og lofaði a benda mér, þegar allir væru í svefni í tjaldinu.

Ögmundur:

Má vera þú hafir gott af þessu að lokum, en é uggi ákefð þína og fljótræði, og fari svo að þú yrði fangaður, þá mundu mig um einn hlut: segðu til mi svo þeir geti fundið mig.

Haraldur:

Því skyldi ég segja til þín? Viltu verða tekin líka?

Ögmundur:

Já, við þig vil ég aldrei skilja, án þín væri all mitt yndi horfið.

Haraldur:

Þú skalt vera óhræddur, ég skal fara varlega; e aldrei skal ég þig svíkja.

Ögmundur:

Lofaðu mér þó þessu. Segðu til mín. Án mí fær þú aldrei frelsi, en séum við saman, mætti sv fara að við fengjum báðir líf, þótt valt — harla val sé því að treysta.

Haraldur:

Þú veizt eitthvað fleira; þú veizt eitthvað um ætt mína, sem þú vilt ekki segja. Ég skal segja til þín, ef ég verð tekinn, en jeg ver mig og vil ekki verða bundinn eins og kind.

Ögmundur

Vel og gott, farðu þá fóstri, því kvöld er komið. g læt fyrirberast ekki allfjarri sömu stöðvum. Farðu rst heim í hellirinn og taktu vopn þín, girð þig saxıu, brýndu það vel og hafðu byssuna hlaðna. Vektu kki víg að fyrra bragði, en sértu sóttur með vopnum, á verðu líf þitt og frelsi; sæki þig margir, skaltu í ma leita undan og stefndu á Gýgjargljúfur, þar muntu já til minna ferða. Þá mun okkur borgið. Ellegar f ekki er kostur á að ná gilinu, þá er ekki annar til n að kasta byssunni og ná jöklinum á handahlaupi.

Haraldur:

Aldrei skal ég fyrir einum renna, en alt fer betur n áhorfist. **Fer.**

Ögmundur

**einn:**

Hvern enda mundi þetta hafa? Aldrei hef ég verið undarlegri í skapi. Eljuleysi, ótti og von gjörir ráð mitt reikandi. Veslings piltur minn, þú mitt einkayndi í illri útlegð! skyldi mér ekki auðnast að frelsa þig — þó mitt líf fari? En hvar er ráðið? Þó mig gruni um foreldra þína, mun útileguþjóf og gömlum galdramanni enginn trúa. Og þó Sveinn væri tekinn, stoðar það ekki, hann mun segja Harald sinn son, og Ketill segir sama og hann. **Hugsar sig um stundarkorn.** Helzta ráðið er, að við hlaupum frá Sveini og hugsum okkur tveir einhver úrræði. Nú skal ég sjá — nú skal sjá! **Sezt niður og styður höndum undir kinn.** Löng og ill er mín æfi: auðnuleysi og ódáðir.

**Raular hægt og fast:**

**Ganga nú Guðs börn**
**glöð að sofa,**
**knésett af kristnum**
**kirkjufriði;**
**en útlaginn**
**einn á heiði**
**drúpir, dómfeldur**
**dauðamaður.**

Flýðu mig felmtruð
faðir og móðir;
þá var ég saklaus
sökum borinn,
göldrum borinn
geymdur píslum:
varð vitstola
og úr viðjum brauzt.

Beit mig að baki
brennudómur,
flýði ég blindandi
blindar þjóðir,
fann ég frelsi
á fjalljöklum
og betra friðland
en föðurkynni.

Síðan er sagt
í sundur griðum,
lokuð guðshús
og gættir manna, —

lokuð öll
lifenda kynni,
hauður og himinn,
nema helvíti.

Veit eg ei verra
en verða að lifa
strokumaður
við stuld og rán.
Eigi mun grenlægja
né grimmur rakki,
kjósa við Ögmund
auðnu skipta.

Illt er í auðnum,
argara þó
bölvun að þola
blindra manna.
Hlægir mig hugfró
í helstríði:
eg á við Alvald
einn að skifta.

Sá mun sannari
sektir dæma
breyskum börnum
en blindir menn;
sá mun um síðir
svölun veita
hjarta míns
Hveravöllum.

Tjaldið fellur

# ÞRIÐJI ÞÁTTUR.

## I. atriði.

Stofan hjá Lárenzius. Það er sumarnótt.

Sk.-Sveinn

kemur inn, klæddur eins og ferðamaður í kápu og með síða hatt á höfði. Hann skimar fyrst þegjandi um stofuna, tekur síða þjófalykil, lýkur upp skápnum og raular á meðan:

Skuggavaldi skjólið þitt
skyggi nú á landið mitt,
svo aldrei verði á það hitt
af örgum landsins lýði;
forða stríði, forða heljarstríði.

Nú skal Lalli setja ofan! Hvað áttu nú helzt fórum þínum kunningi? Silfurskeiðar! Þær má nota Gullhringar — tveir, — þrír, — fjórir og — fimm Góð og gjaldgeng vara! En hvar er sálin sjálf, eða sálarandvirðið, svitadropar fátæklingsins, silfrið mein ég, signor minn? Finnur fésjóð mikinn. Sex hundruð full eða sexföld manngjöld! Aldrei mundi nú alt það silf ur vera sett til höfuðs Sveini karli? Hver væri þa maklegastur að njóta, nema hann sjálfur, sauðurinn Lætur aftur skápinn, skimar til og frá, og sér könnu standa á stofuborðinu. Nú mætti ferðin heita nokkurnveginn borguð

eftir væri öl í könnunni. Teygar úr henni góða stund. ott áttu ölið, Lalli; hafðu sæll svalað gamalmenninu! ei, hafðu skarpa skömm fyrir! Aldrei mundir þú buga í mér öðru en eldi og brennisteini, það er að segja: rðir þú sá ríki maður en ég Lazarus. En aldrei nær ú með tánum þangað sem hann hafði hælana. Hann yfði hundum að sleikja þurfamannsins kaun, en þú gar þínum sporhundum sí og æ á mig, og ligg ég ó ekki iðjulaus fyrir hunda og manna fótum, heldur ita míns brauðs í sveita míns andlitis. Sæmilega er ann Sveinki biflíufastur. Raular.

»Biflían er sem böggluð roð fyrir brjósti mínu;
lærði ég hana alla í einu,
þó aldrei kæmi að gagni neinu«.

Jájá, ekki dugar að snúa heim við svo búið; ekki á ég koma hingað eins og þjófur á nóttu, enda er ynd að launa ekki svaladrykkinn. Hérnameginn er ú' ég, vinnumannaskálinn. Látum sjá, ég vek fyrst inhvern manngarm, gjöri boð fyrir sýslumann, heilsa onum hæversklega, lýg hann fullan af fréttum og æt hann svo ríða með mér úr garði. Mætti hann þá eka minni til að við höfum fundist, höfðingjarnir. allar við skáladyrnar með breyttum rómi: Hér sé friður!

Hróbjartur
inni fyrir:

Sæll veri' hann! Blessi þig!

Sk.-Sveinn
við sjálfan sig:

Sæluna og blessunina látum við nú bíða, því linur r ég við lögmálsbókina.

Hróbjartur kemur út snöggklæddur og hálfvaknaður.

**2. atriði.**

Sk.-Sveinn, Hróbjartur, síðan Lárenzíus.

Sk.-Sveinn

virðir hann fyrir sér með breyttum rómi:

Heill og sæll, kunningi, þar sjáustum við aftur
Er það ekki — —

Hróbjartur:

Hróbjartur, jú, sæll vertu!

Akar sér.

Sk.-Sveinn:

Og þú þekkir mig ekki aftur, góður?

Hróbjartur

gnýr augun:

Nei — ekkí, nei — ekkí.

Sk.-Sveinn:

Rerirðu ekki fyrir 10 til 12 árum í —?

Hróbjartur:

Fyrir 10 til 12 árum, jú, í Grindavík.

Sk.-Sveinn:

Komstu þar ekki í skipreika?

Hróbjartur:

Þar? Nei — það var á Stafnnesi — veturinn fyrir rosa-sumarið! Það er miklu lengra síðan. Ég var á 16. árinu og var nýkominn að Gröf, hana nú.

Sk.-Sveinn

sem fyr:

Á Stafnnesi — var það! En ég vissi að ég þekti

þig rétt. Og auminginn! Ég var einn, sem hjálpaði þér. Manstu ekki eptir honum Óblauði undan Fjöllunum?

Hróbjartur:

Á varst það þú? En ekki man ég eftir þér, en það er það sama, úr því svo var, þá áttu að mér greiða.

Sk.-Sveinn

sem fyr:

Ég er sem sé kominn að kæra nokkuð fyrir sýslumanni. Er hann heima, eða í svefni?

Hróbjartur:

Já, hann mun vera nýsofnaður, en ætlar í býti af stað á morgun í þjófaleit, hananú.

Sk.-Sveinn

sem fyr:

Eftir hvaða þjófum nú?

Hróbjartur:

Eftir honum Skugga-Sveini sjálfum, trúi' ég.

Sk.-Sveinn

sem fyr:

Og er hann enn þá lifandi, bannsettur! Ætli hann þó verði hengdur, ef hann næðist?

Hróbjartur:

Ekki skal maður efa það geyspar svo framarlega sem einhver ólarspotti fyrirfinst á landinu.

5

Sk. Sveinn

sem fyr:

Hi, hi, hi! En farðu nú, góður, fyrir mig rakleitt að rekkju sýslumannsins, vektu hann og segðu að maður eigi brýnt erindi við hann. Um manndráp segðu! Um manndráp!

Hróbjartur:

Um manndráp! Ég skal hlaupa!

Fer.

Sk.-Sveinn:

Eins og þurs skal hann nú gintur og gabbaður; og fari hann eitthvað með mér einn, skal hann ekki frá fundum okkar segja. Illt er að atgeir minn er ekki til taks. Ekki dugar þessi til stórræða. Dregur sax út úr ermi sinni og stingur inn aftur. Þeg, þeg, þrusk! Piltur lætur mig ekki lengi snópa. Lárenzíus kemur.

Lárenzíus:

Hver ert þú?

Sk.-Sveinn:

Ég heiti Sveinki.

Lárenzius:

Hvaða Sveinki?

Sk.-Sveinn!

Úr Skuggabjörgum.

Lárenzíus:

Úr Skuggabjörgum? Nú, norðlenzkur?

Sk.-Sveinn:

Allra sveita kvikindi!

Lárenzíus:

Hvað hefir þú að kæra, svo áríðandi?

Sk.-Sveinn:

Innbrot á næsta bæ og mannslagur! Bóndinn á Gili — því ég gisti þar — biður þig að koma á augabragði. Skugga-Sveinn náður — hann getur ekki haldið þeim, þeir eru fjórir! Fljótt, fljótt! Ég kem líka.

Lárenzíus
kallar:

Svartur, Jón, Eilífur, Ari, Hrói! Upp og út í stofu. Út að stofudyrum, eins og þið standið, ég skal fá ykkur vopn. Flýtið ykkur. Til Sk.-Sveins. Þú kemur líka!

Sk.-Sveinnn:

Já, sjálfsagt. Svona eiga sýslumenn að vera!
Þeir fara.

---

### 3. atriði.

Eftir litla stund kemur Margrét inn og sezt með prjóna sína.

Margrét:

Hver ósköp skyldu ganga á á Gili? Bara enginn hafi nú slys. En fasið á blessuðum sauðnum, húsbóndanum! Og hver ætli hann hafi verið, sem sótti þá, ókunni karlinn stóri með gráa skeggið? Ó hvað hann var skuggalegur! Það má mikið vera, að sá hafi góðan mann að geyma. Þeir voru að segja að hann Skugga-

Sveinn væri fangaður. Bara hann slíti ekki af sér böndin og meiði ekki hann Ara. Mig hryllir við að hugsa um allar þær hættur, sem eru í heiminum. Maður má ekki óhultur sofa sjálfa haghjarta sumarnóttina. Ég er einhvernvegin svo hrædd; ég skal raula mér til afþreyingar.

**Syngur:**

Og flýt þér nú, snót mín,
og fylgdu mér á braut;
svo fríð ert þú og brosleit
og snjóhvítt þitt skaut.

*Kór á bak við:*

: : Margt býr : : í þokunni, þig mun kanske iðra.

Þá svaraði mærin:
»Ég vil ei væta fót«. —
»Ei væta þarftu skó þinn
né stíga á grjót!«

*Kór:*

:|: En margt býr :|: o. s. frv.

»Nei, úti á víðavangi
ég villast kann á fjöll«. —
»Ei villu skaltu hræðast,
ég særi frá þér tröll?«

*Kór:*

:|: En margt býr :|: o. s. frv.

Svo gengu þau frá garði.
Þá heyrðist henni hljóð.
»Þér hringir fyrir eyrum
þitt saklausa blóð«.

*Kór:*

:|: En margt býr :|: o. s. frv.

Þau komu fram að Seljum,
hún heyrir aftur hljóm;
en höfði lutu kvöldsvæf
hin gullfögru blóm.

*Kór:*

:|: En margt býr :|: o. s. frv.

»Því hræðist mín hýreyg,
þú heyrir fossins róm«.
Guð hjálpi mér, þú skrökvar,
ég þekki klukkna hljóm!

*Kór:*

:|: En margt býr :|: o. s. frv.

Svo hrópaði mærin,
þá hvarf hinn flái sveinn,
og heim komst snót með nauðum,
en faldurinn var hreinn.

*Kór:*

:|: En margt býr :|: o. s. frv.

Lárenzíus kemur fasmikill.

---

**4. atriði.**

Sama. Lárenzíus.

Lárenzíus:

Hvað gjörir þú hér? Margrét stendur upp hrædd. Er fólkið alt lifandi? Er skápurinn læstur? Opnar hann

og skoðar. Hugsaði ég ekki? Hvar eru skeiðar? hringir? — peningarnir?

Margrét:

Hvað stendur til? Guð sé oss næstur? Vantar nokkuð?

Lárenzíus:

Peningar, hringir, skeiðar — allt farið, öllu rænt og stolið, alt gripið, eyðilagt, og ég gabbaður!

Margrét:

Hvað er þetta! Er það mér að kenna?

Lárenzíus:

Og peningarnir! Stappar og æðir um stofuna. Hvar eru peningarnir?

Margrét
gengur lafhrædd eftir Lárenzíus:

Ef dómsdagur er kominn, þá ætla ég að biðja yður að fyrirgefa mér, hafi ég gert eitthvað. Æ ég er saklaus! Vantar máske eitthvað?

Lárenzíus
stillir sig:

Ónei, það heitir nú ekkert! En þú ert saklaus, Manga, þú ert saklaus, saklaus!

Margrét:

Æ, þá er ég ánægð! En er það þá víst, að ég sé þá ekkert sek — ekki vitund sek?

Lárenzíus:

Þú ert saklaus einfeldningur. Sæktu mér að drekka, en láttu það nú vera af lakara ölinu!

Margrét:

Ég skal þjóta! Fer.

Lárenzíus
einn:

Nú á ég ekki skilið, að drekka betra ölið. Hvernig hvarf heljarkarlinn út úr höndunum á mér? Það hefir verið við Svartagil. Seigur er Sveinn! Er hann fjölkunnugur? Jú, hann er fjölkunnugur! Hefir nokkur nokkru sinni blindað mig svo — gabbað mig — storkað mér svo? Sagðist hann ekki heita Sveinki og vera úr Skuggabjörgum? Sýndi hann mér ekki saxið á leiðinni, og sagði, að Skugga-Sveinn ætti það? Ég hafði allan hugann úti á Gili, þar sem þrællinn laug upp húsbrotinu. Kallar: Hróbjartur!

Hróbjartur
í gættinni:

Hvað á ég að gjöra, húsbóndi góður?

Lárenzíus:

Hvað sagðist karlinn heita?

Hróbjartur
i gættinni:

Mér sagðist hann heita Óblauður undan Fjöllunum, og kvaðst hafa bjargað mér fyrir nokkrum árum í Grindavík, en það er nú eitthvað bogið; á Stafnnesi hefir mér einu sinni borizt á, en aldrei í Víkinni.

Lárenzíus:

Og þú kannaðist alls ekki við andlit hans?

Hróbjartur:

Nei, nei; ég hafði hugsað, að þetta væri hálfvegis óráðsíu-maður.

Larenzíus:

Þið talið ekki um þetta ferðalag við nokkurn mann!

Hróbjartur
sem fyr:

Við heyrum það og skulum minnast þess, húsbóndi góður.

Fer.

Margrét kemur með ölkönnu og setur á borðið, en Lárenzíus drekkur.

Margrét:

Það er nú samt af skárra ölinu, ég vona blessaður húsbóndinn reiðist mér ekki; ég tímdi ekki að taka af hinu, það hressir svo sem ekkert. Verði yður eins gott af eins og ég ann yður og óska, blessaður sauðurinn — sýslumaðurinn og húsbóndinn — vildi ég segja!

Hneigir sig og fer.

Lárenzíus:

Það er gott, Manga litla. Við sjálfan sig. Skeiðar 15, hringir 6 og peningarnir — peningarnir! Ég skal taka þrjú börn og ala upp, fái ég nú fljóta hefnd og góða! Það er barið. Kom inn!

Helgi og Grímur koma.

**5. atriði.**

Sami. Helgi og Grímur.

Helgi og Grímur:

Heilir og sælir aftur!

Lárenzíu:

Heilir báðir! Komnir aftur! Nýjungar að segja?

Grímur:

Við segjum okkar farir ekki sléttar. Líklega hafið þér hitt óskastundina.

Lárenzíus:

Þið hafið fundið — ?

Helgi:

Þegar við vorum komnir á háheiðarnar, áðum við hestum okkar í lítilli grasbrekku; en er minstu varði, hlaupa að okkur tveir vopnaðir útilegumenn og ráðast á okkur. Við bundum óðara annan, en hitt var elfdur maður, sem við réðum ekki við, enda kallar sá bundni á Skugga-Svein, og þá stökkur vomurinn fram með ógurlegan atgeir.

Grímur:

Og við áttum fótum fjör að launa, því þeir eltu okkur þindarlaust, komumst nauðuglega á hestsbak og hleyptum undan unz í sundur dró, og þessir árar hurfu okkur.

Lárenzíus:

Mikil og góð tíðindi! Bælið, sáuð þið bælið?

Grímur:

Já, það höldum við.

Lárenzíus:

Ágætt, ágætt!

Helgi:

Við hleyptum eins og horfði, talsvert langt fr leiðinni, og komum alt í einu á dalbrún; þar var fag urt pláss niðri — en ekki stórt, og jöklum og hömru lukt á alla vegu. Mannabygð sáum við ekki, e reykjarþef þóttumst við finna.

Lárenzíus:

Og þið treystið ykkur til, að finna dal þennan aftur?

Grímur:

Ekki trúum við öðru, ef bjart er veður. En ekki máttum við tefja þar svo lengi, að við gætum miðað þessar stöðvar, því við vorum á flótta.

Lárenzíus:

Gott og vel! Verið nú kaupamenn mínir nokkra daga, leitið fantanna með oss, finnið þá og hengið og hafið svo fréttir að færa norður!

Helgi og Grímur:

Velkomið!

Lárenzíus

**kallar:**

Margrét! **hún kemur** Vín og bikara!

**Margrét fer og sækir það. Fer.**

**Grani og Geir koma rifnir og haltir.**

---

### 6. atriði.

Sömu. Grani Geir.

Lárenzíus:

Hvað gengur á? Hvað er að sjá ykkur.

Grani
til Geirs:

Láttu mig tala. Til Lárenzíusar. Aukast nú vandræðin: Kindum okkar stolið, og við hjörum hálfdrepnir eftir, haltir og húðstrýktir! Svona er mussan!

Geir:

Og svona ber sig buran mín.

Lárenzíus, Helgi og Grímur:

Hafið þið þitt hann Skugga-Svein?

Grani:

Nei, bíðið nú hægur. Fer ofan í vasa sinn og leitar. Er ég ekki búinn að tína béuðum ginföxunum!

Geir:

Nei, hérna eru hundsvottin, þú þorðir ekki að bera þá.

Grani
tekur við blöðunum og réttir Lárenzíus:

Þessir bannsettu galdrastafir hafa ollað allri ógæfu — takið þér við.

Lárenzíus
reiður:

Vogar þorparinn að fá mér sína fítons-stafi? Burt, burt! Eða hvert var erindið?

G r a n i:

Það eru ginfaxarnir hans Galdra-Héðins. V heimtum, að hann sé brenndur fyrir þá á þingi í sum og vildum færa yður þá til sanninda.

H e l g i:

Heyrum fyrst sögu þeirra.

L á r e n z í u s:

Veit ég að Galdra-Héðinn ginnti ykkur fyr skemmstu, og ættuð þið báðir hýðingu skilið fyrir m ykkar við hann, en sakir ykkar alkunnu heimsku, þ sleppi ég þeirri sök. Segið skjótt frá tíðindum!

G r a n i:

Við lögðum af stað í morgun snemma að lei kindanna, hvor með sinn ginfaxa á brjósti og treystan þeim og kunnáttu Galdra-Héðins eins og nýju neti. — En þegar við komum austur af Háubrúnum komu við auga á kindahóp, sem maður rak til heiða. Vi hertum upp hugann og hlupum fyrir hópinn og þekk um þar kindur okkar.

L á r e n z í u s:

Hvað svo, eða var þar Skugga-Sveinn?

G r a n i:

Jú, jú, hann kemur þarna alskapaður. Við send um hann snata í ærnar og hann tætti þær óðara hvarf, svo við höfum ekki séð þær síðan. En af okk ur er það að segja, að vargurinn elti okkur lengi, næ okkur í Raftaskógi, sat á okkur til skiftis, batt okku

íðar höndur á bak, hábatt okkur á fótum og hýddi kkur svo og hrakti á undan sér, og skildi ekki við kkur fyr en á honum Bólhjalla.

Lárenzíus:

Lengi voruð þið afreksmenn, en þó er nú ykkur orkunn. Verið nú til að morgni, að koma með mér leitina eftir illvirkjunum.

Grani:

Nei — sjáið mig — svona er sjónin, svona bakið, vona gangurinn.

Geir:

Ég fer ekki spor, ég er allur af göflum genginn.

Grani:

Við erum eins og flegnir kálfsfætur.

Geir:

Eins og ræfill rifinn upp úr svelli.

Helgi:

Slíkir menn eru ekki til stórræða, og verðið þér ð njóta betri manna, ef duga skal.

Grani:

En ærnar okkar — það tekur út yfir.

Geir:

Ærin er mitt líf.

Lárenzíus:

Burt, og heim! Nú skal réttvísin reyna sig!

Grani:

Hengið hann, hengið hann! Heim með okkur, Geir.

**Þeir fara.**

Lárenzíus

**hellir víni í bikarana:**

Þið heyrið þá, ungu vinir, að hér er ekki um gott að gjöra, og að Skuggi karl er ekki barnameðfæri, enda voruð þið heppnismenn, að komast klaklaust úr klóm hans. Skulum við nú allir drekka stríðsöl, og þar með eggja hver annan lögeggjan, svo að vér mættum sigri hrósa, og aftur komnir erfi þessa illþýðis drekka.

**Þeir taka bikarana og syngja:**

Búumst skjótt og bregðum hjör,
blóðið veki hetjufjör;
upp til heiða hetjuleiðir,
Heiðarvíga gjörum för.

Nú skal skæðan Skugga sjá,
skilja karl við belginn grá,
klæða rauðum, reisum kauða,
regingálga fjöllum á.

---

## 7. atriði.

**Hellisdalurinn. Klettar beggja vegna og sér í hellismunnann öðrumegin. Það er kvöld.**

Sk.-Sveinn

**situr við hellismunnan á steini og hvessir atgeir sinn. Raular:**

Átta menn í odda þrá

ég hefi geiri svæfða,
en hæfða
hnefa mínum hef ég þrjá,
helju sendi ég alla þá,
börnin fimm og konur tvær ég kæfða.

Stendur upp og mundar atgeirinn.

Ógn sé þér í oddi,
en í eggjum dauði,
hugur í fal
en heipt í skafti!
Þá muntu bíta,
blóðlifrum spíta,
og blóðlifrum spíta!

Ekki þarf á að líta, jafnhvass ert þú sem fyrri, geir ninn, en mér fer í flestu að förla. Og ekki auðnaðist nér að stúta Lalla, en laglega var á hann leikið, og ekki ikortir nú skotsilfrið. Nú, lifi hann þá og lifum við báðir! Ég vænti að ég hafi verið lítil heillaþúfa um að þreifa ıans ættmönnnm, þar sem ég hefi drepið frændur hans ıg systur — nei, ekki drap ég hana, þó hún hinsegin ýndi talinu stelpan. Hefði ég sjálfur eignast með henni tråk, í stað þess að flækjast með þennan Harald, þá ıefði sá eflaust orðið mér betur að skapi. Haraldur ıefur mér lengi verið reykur í augum síðan hann eltist, nda er það Ögmundi að kenna. Ögmund hata ég, en ná illa án hans vera. Ketill er, trú' ég, aðalreipið, og r þó satt að segja ilt að eiga þræl fyrir einkavin. æa, hann er mér fylgispakur eins eins og smalarakki ıg hleypur og geltir hverjum hvelpi betur. En engum r að trúa — ekki heldur Katli, hann er augnaþénari

og hræsnari, sem er gamall og gullvægur kostu í bygð, en útlegðarsök í óbygðum. Vel, vel Farið þið að ykkar högum og munum fyrst um sinn Ögmundur með galdrana og grályndið og Haraldur me hjáræuuskap sinn og þvermóðsku. Sjái ég að þið ætli að svíkja, skal þessi stytta ykkur stundirnar mundar at geirinn! Fyrri til skal ég verða. Vitið til. Hingað o ekki lengra! Mín köldu ráð skulu ykkur á klakan koma, því fari svo, að ég verði fangaður, skuluð þi báðir á gálgann með höfðingja ykkar. Nei, fari þeir gálgann, aldrei skal ég í honum lenda, sá aldurtil hæfir hundum einum eða köttum, og kanske drenggarm inum honum Katli! Við Ketil verð ég að lappa, þ honum liggi hálmvisk í hjartastað. Hann skal mé þjóna eins og húðarbikkja þjónar hestaníðingi; lifand og dauður skal sá drengsnáði mér fylgja og hræ han hvítna með kjúkum mínum. Ketill kemur. En þarna kemur piltur!

---

## 8. atriði.

Sami. Ketill.

**Ketill:**

Ég var rétt kominn að spreng, elti 12 sauði frá honum Sigurði gamla í Dal austur fyrir Sauðafell og er kominn með þá heim í byrgið.

**Sk.-Sveinn:**

Njóttu heill handa, Ketill! Þig vantar ekki nema einn kost til þess að vera eftir mínu skapi.

K e t i l l :

Þykir þér ég vera seinn á fæti, kanski? Nei, það hefir þú aldrei sagt. Eða ekki nógu sporviljugur? Jú, viljugur er ég.

S k .-S v e i n n :

Hvað stoðar hvatleikurinn, Ketill, ef áræðið vantar? Óðara en háskinn kemur, gugna knjáliðirnir á ragmenninu, en fallinn er hver, sem fótanna missir.

K e t i l l :

Er þá áræðið í fótunum?

S k .-S v e i n n :

Nei, ekki áræðið, heldur hugleysið. Það hefir margur mér kent, Ketill; en í hjartanu á hugdyrfðin heima, og þar hef ég geymt mitt skap og þar skal það una til enda.

K e t i l l :

Já, ég hef oft óskað mér, að ég væri eins og þú þegar þú varst í broddi lífsins.

S k .-S v e i n n :

Já, það er satt, þá skorti mig hvorki kergju né karlmensku; þær systur héldust í hendur og studdu mig á hálu hjarni og margri glæfragöngu. Snemma lærði ég þá lífsins speki, að góðmenskan gildir ekki. En nú fer harðfengi minni að förla og kennir hún oftlega einskonar doðasóttar, þó að skapið hafi allgóða heilsu. Þess vegna ertú mér ómissandi, því Haraldur og Ögmundur eru þegar hver vill úr sögunni. Báðir

eru þeir farnir að sitja á svikráðum við okkur. En vertu óhræddur, ekki skulu þeir koma að okkur óvörum, og ekkert mein skulu þeir gjöra þér. Vertu mér bara fylgispakur, og haltu kjafti!

Ketill:

Ég held kjafti og verð þér fylgispakur. Það væri bezt að drepa þá báða; þá yrðum við einir um hituna.

Sk.-Sveinn:

Nú sé ég að það er mannræna í þér, Ketill. — Heyrðu, segðu mér eitt: hefirðu lært boðorðin?

Ketill:

Nei, hún fóstra mín komst aldrei til að kenna mér þau fyrir flakkinu.

Sk.-Sveinn:

Svo þú hefir aldrei verið boðorðum bundinn?

Ketill:

Nei, og ég þarf ekki að breyta eftir því, sem ég ekki veit.

Sk.-Sveinn:

Skynsamlegt svar, Ketill. Hvað eru boðorðin mörg?

Ketill:

Þau eru mörg, mig minnir ellefu.

Sk.-Sveinn:

Og það ellefta er þetta: Lærðu að launa ilt með illu!

Ketill:

Þetta boðorð líkar mér vel.

Sk.-Sveinn:

Þá ertu sanntrúaður, Ketill. Þú átt öllum ilt að launa utan mér, og hvergi vægðar að vænta.

Ketill:

Þess vegna kvelur það mig þegar hann Ögmundur er að telja úr og tala um samvizkusemi. Hvað varðar okkur útilegumenn um samvizku?

Sk.-Sveinn:

Hi, hi! Mín samvizka entist nú ekki lengur en fyrstu skórnir mínir. Fyrsta útileguárið lá ég einu sinni þrjá sólarhringa í skafli norður á Kili, næringarlaus og að bana kominn. Þá króknaði samvizkan, Ketill, og sefur síðan sumar og vetur.

Ketill:

Ég held það hafi aldrei verið samvizka til í mér.

Sk.-Sveinn:

Okkar köllun er að vera illmenni og hetjur, svo að lyddurnar í bygðinni hafi beyg af okkur. Heyrðu, eru geldingar þessir feitir?

Ketill:

Og skollinn taki það; þeir eru varla brúnsléttir, nema svo sem tveir; þó er synd að segja, að sauðaketið frá Dal sé ekki dáindis bragðgott. Nei, í sumar þyrfti maður að ná í nokkra Bárðdælinga, því þar má þó enn finna þverhandarsíðurnar.

Sk.-Sveinn:

Og þykkri en þverhöndin, Ketill. Það eru þæ beztu kindur, sem ég hefi soðið í gæru, sem þaða voru kynjaðar. Þar næst smakkar mér Öræfafé. N fer öllu aftur, ærlegir sauðir finnast nú varla. E komum þá og kippum höfðum af kreistum þessum Sæktu hnífana og brýnum þá.

Ketill sækir hnífana. Þeir setjast og kveða sinn með hvor- um róm, og brýna í ákafa:

Blundar lúinn
bygðarmúgur
beðjum á,
fjallabúinn
fer á stjá;
saman í hrúgum
sauðagrúann
sér hann til og frá,
sízt þá sofa má.

Því um nætur
fer á fætur,
fjalla-sal
kveða lætur
»hó« og »hal«;
nú skal kætast,
gálgi græta
garpa þeygi skal,
sundrum sauða-val.

Látum hnífa
hvassa stýfa

haus frá bol,
síðan rífum
sauði' á hol;
kinda lífi
lengi hlífa
léð oss ei er þol;
hverfi haudaskol.

Þeir fara.

---

## 9. atriði.

Ögmundur, síðan Haraldur.

Ögmundur
kemur hryggur og hugsandi:

Stolið er enn; sezt á steininn og strýkur ennið. Skyldi þá Haraldur fóstri vera fangaður. Hann hefir ekki hingað komið og hans finn ég hvergi spor; uppgefinn er ég orðinn. Þoka var að vísu suður á fjallinu, en ekki er hann vanur að villast. — Gjörningar leggjast á okkur; hann hefir hitt galdra-þoku og í henni hefir hann villzt í trölla- eða fjandamanna hendur. — Ég sé hann aldrei meir! — Ó mig auman, argan og yfirgefinn mann! Grípur fyrir andlitið Er þá engin líkn eða lausn til fyrir mig? Er ég verri en allir aðrir? Er ég fæddur til fordæmingar? Átti ég að hreppa helvíti bæði hér og annars heims? Stendur upp, ber sér fyrir brjóst. Sé Haraldur farinn, þá er úti um allt — allt — allt. — Ég sálga mér! Ég fyrirfer mér! Drep fyrst Svein og Ketil. Svo mig, svo mig! Sezt niður í þungum þönkum. Kæmi Haraldur, — og fengjum við grið og frelsi, þá — þá skal ég allur annar maður verða, — því heiti

ég við mitt hjartablóð. **Stökkur upp. Haraldur kemur.** Heill fóstri! Hvar varstu?

Haraldur
**vopnaður og með fuglakippu á baki:**
Heill og sæll! Þér mun hafa leiðst?

Ögmundur:
Víst hefir mér leiðst, ég hefi leitað þín liðlangan daginn, hugði þig dauðan, heillaðan, fangaðan, hengdan.

Haraldur:
Hvar eru þeir Sveinn?

Ögmundur:
Þeir slátra sauðum Sigurðar í Dal við byrgið.

Haraldur:
Ég skildi við Ástu án þess aðrir yrðu mín varir. En á leið minni til móts við þig, sá ég álftir á tjörn og elti suður hjá Svörtugiljum. Þar sló yfir þoku svo svartri, að ég sá ekki handaskil, og fann ég strax, að það var gjörningaþoka, enda vissi ég ekki neitt hvar ég fór, en óttalegar ógöngur komst ég í.

Ögmundur:
Þú hefir verið í Illahrauni, og þá var mildi, að þú sást aftur sól.

Haraldur:
Já, kominn í suðurenda Illahrauns. Þá þegar minnstu varði birti upp þokuna, og ég sá til sólar. Þá þekkti ég mig óðara og sneri við. Og veiztu hverjum ég á lífið að þakka?

Ögmundur:

Þú munt þakka það Ástu frá Dal, er ekki svo?

Haraldur:

Já, hún segist biðja hann Guð að varðveita mig, og ég skuli reiða mig á hans hjálp, hvernig sem gangi fyrir okkur.

Ögmundur:

En fann hún nokkurt ráð til að frelsa okkur af fjöllunum?

Haraldur:

Ekki kveðst hún enn hafa fundið ráð til þess, en hún kveðst muni túlka mál mitt við föður sinn og frænda hans, sýslumanninn, og reyna að sanna þeim, að ég sé enginn sakamaður, og hún bað mig að segja þér, að vera rólegur og vongóður.

Ögmundur:

Víst eru orð hennar betri en engin, en völt er þessi von, fóstri sæll.

Haraldur:

Hún talaði um, að við skyldum reyna að losast við hina, og lagði það til, að við leyndum okkur við Dalssel í vetur meðan harðast er; þar eru kofar uppi og enginn maður er þar.

Ögmundur:

Það er alt of nærri bygð, og hvorki er þar veiði nokkur nærri né önnur föng.

Haraldur:

Hún kvaðst geta komið þangað nokkrum forða með leynd. En ella veit hún ekkert hæli.

Ögmundur:

Nei, leitum heldur austur eða norður.

Haraldur:

Afráðum ekkert að sinni, nema það að yfirgefa Svein. Bygðarmenn eru, segir Ásta, að leita hans og okkar í þrennu eða fernu lagi, allir vopnaðir, með byssur og með sporhunda, og Lárenzíus í broddi fylkingar, vondi sýslumaðurinn, sem hengir og brennir hvern, sem hann nær.

Ögmundur:

Því heldur skulum við fara varlega, og forðumst að finna þá Svein eða vera framar í þeirra flokki. Hver veit nema Lárenzíus sé þó linari að reyna að lokum en aðrir. En ertu ekki svangur, fóstri?

Haraldur:

Förum fyrst og snæðum, en síðan fer þú á leið með mér aftur.

Ögmundur:

Ætlar þú enn að hitta dótturina frá Dal.

Haraldur:

Já, ég hét að hitta hana og kveðja í sama mund í nótt og á sama stað. Hún kvaðst mundi hugsa upp nýtt ráð og segja mér þá að skilnaði.

Ögmundur:

Ær og auðtrúa er æskan. Þá það; ég fylgi þér í leið; förum báðir varlega.

Þeir fara út hellismegin.

## 10. atriði.

Sveinn og Ketill koma.

Sk.-Sveinn:

Allgóður fengur, Ketill, og væri nú ekki veðra brygði í lofti, væri nú helzt hvíld og næði fyrir höndum.

Ketill:

Á ég ekki að fara að sjóða, Sveinn? Mér er bumbult af blóðinu og hráa mörnum, þó það sé gott til að mýkja sér í munni.

Sk.-Sveinn:

Sjóddu' drengur! En mig sækir svefn.

Ketill fer.

Heyrðu Ketill!

Ketill

snýr aftur:

Hvað á ég að gera?

Sk.-Sveinn:

Sáztu hvort þeir stefndu?

Ketill:

Þeir stefndu suður hjá Sólarfelli.

Sk.-Sveinn:

Þeir sitja um líf okkar, Ketill.

Ketill:

Á, heldurðu það? — Já, ég er hræddur um, a þeir ætli að gera okkur eitthvað.

Sk.-Sveinn:

Það er víst. Farðu ekki langt frá mér, drengur Kondu strax ef ég kalla. Hvurfu þeir suður fyrir eð vestur fyrir fellið?

Ketill:

Þeir hvurfu, sýndist mér, vestur fyrir.

Sk.-Sveinn:

Hvað, mundu þeir ætla að finna grasafólkið ú bygðinni? Þá hefði ég hugsað, að báðir væru feigir Ellegar — mundi Ögmundur vera að brugga okku svikræði? Fjandinn trúi honum framar. Nú erum vi þá einir, Ketill. Vertu mér trúr. Ég er Hákon jarl þú ert Karkur þræll. Nei, vertu mér trúrri en hann var sínum lánardrotni.

Ketill:

Ég er þér trúr.

Sk.-Sveinn:

Allir drottinsvikarar verða hengdir, Ketill. Sértu mér trúr, þó ég illur sé, muntu aldrei verða hengdur, — úr því að þú ert kominn á þennan dag og hefir ekki enn uppfestur verið. Ketill vill fara. Heyrðu,

lrengur! kippir i hann og skoðar hann i krók og kring. Þú ert breyzkur maður og staðlítill, Ketill.

Ketill
smeikur:

Er ég ekki trúr? og þægur? og fljótur?

Sk.-Sveinn:

Þú ert líkur Karki, Ketill. Hann og jarlinn voru fæddir á einni nótt báðir og var hann gefinn Hákoni í tannfé. Hve gamall ertu, Ketill?

Ketill:

Ég var, trú ég, fæddur fyrra bruna-árið.

Sk.-Sveinn:

Fyrra bruna-árið! Nú, það stendur á sama, ég hefi lifað tvær æfir þínar. Þú ert ekki Karkur, Ketill. Farðu!

Ketill fer, en Sk.-Sveinn sezt.

Engum að trúa. Illt er illur að vera. Stendur upp. En burt allur kveifarskapur! Skugga-Sveinn á ekkert að óttast, en öllum að storka. Það eru bleyðurnar í bygðinni, sem alt vex í augum. Þeir eru löngu dauðir úr öllum æðum og orðnir ættlerar frækinna feðra. Dáðlausir örkvisar eru þeir allir, og heilar sveitir hræðast nú einn örvasa karl, enda hefir mörg lyddan kent á kögglum þessum. Þegir um stund Skyldu þeir svíkja mig? Skyldi ég nú í elli minni verða fangaður? Við illu — öllu hinu versta má búast. Ill er æfin, en allra verst síðast. Litur til lofts og sér að sól er afbjarga. Illt er í lofti og er þó heiður himinn. — Illt er á

fjöllum, en á þeim vil ég þó aldri mínum ljúka, og hér vildi ég heygður verða að fornum sið, og ekki all-fjærri almanna vegi. Mundi þá ekki örvænt, að sveitalyddurnar ætti ekki miklu heiðríki að fagna, er þeir troða kjúkur mínar. Ekki gjörir hann Skugga-Valdi mig líkan hversdags snáða, enda hefir mig dreymt, að fyrir mér lægi að verða landvættur norður á Kili.

**Raular:**

Norður á Kili í nístanda bili
heldur skal búa við hel og mein
uns hrafnar sjúga mín hvítu bein,
en biðja griða hinn blauða lýð;
með rammri krummu ég risti honum níð.

Mig sækir svefn. **Kallar:** Ketill!

Ketill

**úti fyrir:**

Hvað viltu?

Sk.-Sveinn:

Farðu ekki frá hellinum, Ketill!

**Legst fyrir og sofnar. Þögn um hríð. Sk.-Sveinn fer að láta illa í svefni. Það verður skuggsýnt á sviðinu. Kvennvofa sézt líða hægt og hægt yfir sviðið og segir:**

Seinna koma sumir dagar
og koma þó!

**Fer.**

**Karlvofa birtist á sömu leið og segir:**

Skamt er nú til skuldadaganna!

**Fer.**

**Tveir svartir púkar koma upp á sviðinu. Þeir hoppa í kringum Sk.-Svein og segja sína hendinguna hvor:**

Mögnum skelli — menn eru úr helli,
nema hinn armi — á eldgígs barmi.
Náhrafn mun bíta — og nefi slíta
þjófsaugu grá — þú vaknar þá!

**Fara.**

Sk.-Sveinn

**umlar og lætur illa. Kallar:**

Ketill! Ketill!

**Ketill kemur og horfir á ìsæti Sk.-Sveins.**

Ketill:

Það sækir svona að honum! Ég fælist þetta. Sk.-Sveinn! Það sækir að þér, vaknaðu!

**Togar í Sk.-Svein í ofboði. Loks hrökkur Sk.-Sveinn upp og kastar frá sér Katli í svefnrofunum.**

Sk.-Sveinn:

Burt, drísildjöfull, burt!

Ketill:

Þú meiddir mig! Æ! Það er ég!

Sk.-Sveinn:

Varst það þú, drengur? **Strýkur ennið.** Ekki er mark að draumum. Ketill, varst þú að kvelja mig, Ketill?

Ketill:

Nei, nei, ég var að vekja þig og þá hrattstu mér og meiddir mig í mjöðminni.

Sk.-Sveinn
**áttar sig:**

Draumórar, draumórar! Hvar er atgeirinn, *Keti*

Ketill
**fær honum atgeirinn:**

Hérna er atgeirinn. Hvað viltu með hann?

Sk.-Sveinn:

Ég trúi á atgeirinn, Ketill. Hann er fulltrúi min Gunnar á Hlíðarenda hefir átt hann; meðan ég h hann heilan í hendi, verð ég hvorki hengdur né han samaður. — Heyrðu, er soðið, Ketill?

Ketill:

Já, ég ætlaði að fara að taka ofan.

Sk.-Sveinn:

Komum og snæðum, og látum okkur vel smakk — Komið að skuldadögunum! — Matfriðinn fyrst!

**Þeir fara.**

---

# FJÓRÐI ÞÁTTUR.

**I atriði**

Grasafjallið.

**Fólkið frá Dal sést ganga um sviðið með tínupoka. Tjald st öðrumegin.**

**Gudda kemur og dregur með sér grasapoka, stynur í öðru oru spori.**

Gudda, síðan Gvendur.

Gudda:

Gott er bakið á mér núna! Mikil er sú gigt, sem ig ætlar lifandi að drepa, og er það nú þegar ég á 5 bogra si sona. Ekki er nú fólkið nærgætið, að geta ngið af sér að reka mig upp á regin-fjöll, eins og ég ú er orðin! Það er eins og allir ímyndi sér að ég sé ın þá ung og ódrepin. Það segði annað, fólkið, ef að vissi alt sem ég veit, sem hef nú sjö um sjötugt. á, ég þekki hana verslu og má muna tvenna tímana. nnur var æfin þegar ég var í Koti hjá honum Ingi-aundi sæla; þá var Gudda ekki ætíð lengi að sækja rasahnefa. — Æ, æ! Ég má fá mér helluhnoðra til að eggja við hlustina, ég heyri ekki til mín sjálfrar fyrir jávarsuðu í eyranu. Já, önnur var mín æfi! þá man

ég það einu sinni, kvöldið fyrir hvítasunnu, að ég l
mér austur fyrir Bláfell og tók þar á svipstundu tr
inn tunnupoka, og var komin heim með alt sam
fyrir fótaferðartíma. Ingimundur minn var einn á fe
og leit þá heldur hýrt til Guddu sinnar þegar ha
sá pokann, og sagði: »Þú hefir þá ekki verið þér
nýt í nótt, Gudda litla«, segir hann. »Lítið lætur
að því, húsbóndi minn«, segi ég. »Er það þá ek
bezt að við byrjum hátíðina?« segir hann. »Hvorki
ég syfjuð eða lúin«, seg' ég. »Soddan konur kos
nokkuð!« segir hann, og tekur mig með sér út í skemm
og gefur mér fullan hesraspela, annað tala ég ekki u
en það segi ég, að í þann tíð vildi ég ekki deila *lí*
kjörunum við neinn giftan kvenmann. Æ, hvað er
að tala um þetta, sem varla heyri til mín sjálfra
merglaus og beinskorin — æ! — brotin, vildi ég segj
Og heldur er það poki! hálffullur eða ekki það. Þa
skal verða í síðasta sinn, sem Gudda haltrar hér upp
heiðum, mönnum og skepnum til skapraunar, en ára
um til athlægis! Gvendur kemur. Æ, kemurðu rýja
mín? Mikið er að sjá pokann hjá þér, manninu
komnum á fimtánda ár!

Gvendur:

Hvernig á ég að vera á fimtánda ár þegar ég f
ekki nema mysu í hvert sinn sem mig vantar úr hj
setunni? Seinast í fyrra dag var mér fenginn askurinn
og sagt ég skyldi hafa svikin fyrir drafla.

Gudda:

Þú mátt ekki heldur sofa í hjásetunni, Guðmundur

Eða heldurðu kanske að ég hafi ekki nóg á minni könnu, þó þú ekki angrir mig, útaf dauða?

Gvendur:

Ég skal ætíð sofa og svíkjast um þegar ég fæ tóma mysu.

Gudda:

Æ vertu nú ekki að angra sansana mína, Gvendur; farðu nú ekki að taka upp á neinum óvanda hér fram á regin-fjöllum!

Gvendur:

Þú talar aldrei um annað en óvandann í þér og gigtina í mér, — nei þér! Er ég ekki líkur honum afa mínum?

Gudda:

Honum afa þínum! Í framan og á fæti svipar þér til hans, en í öðru, segi ég þér það satt ættirðu að líkjast honum betur en þú gjörir; þá lægirðu ekki undir hunda og katta fótum. Já, hann gat nú borið sig, og ég man það, eins og það hefði skeð í gær, þegar hann einu sinni kom heim — það var á Þorláksmessukvöld fyrir jól. Ég var að taka helluna af eldinum, en í því heyrist mér guðað yfir hlóðakallinum. Ég hrökk við og svara: Guð blessi þig, seg' ég. »Viltu ekki ljúka upp bænum?« sagði hann. »Ertu það sjálfur?« seg' ég. »Já, stállifandi!« seg'r hann. Ég fram og lýk upp, en svo var askan svört úti, að ekkert sá ég fyr en ég var kyst eins og af klakahnausi, en málróminn þekti ég, og þá varð ég fegin manneskja. Og

þarna var hann kominn með 40 ísuspyrður á bakinu og hafði gengið þingmannaleið í þvílíku veðri frá því um morguninn, og vaðið fönnina jafnt og þétt upp í háls eða nef og hananú.

Gvendur:

Hvar er þetta »nef — hananú« á manneskjunni?

Gudda:

Hana nú — hérna nú! Þar slær aftur út í fyrir þér! Æ, kondu nú, hrætötrið mitt, og kepstu við að tína, þangað til húsbóndinn kallar.

**Þau fara. Sigurður kemur.**

---

## 2. atriði.

Sigurður, síðan Jón.

Sigurður:

Mikil er dýrðin Drottins! Og þetta kalla þeir dauða náttúru! Alt glóir nú af gulli og gimsteinum; og svo öll þessi lyfja- og kostagrös, fyrst fjallagrösin sjálf, svo víðirinn, smjörgrasið, smárinn, alt er kostur og kjarni, fyrst fénaðarins og síðan mannsins. Um jöklana, sem baða sig þarna í kvöldgeislunum, má að sönnu segja, að ekki sé alt gull sem glóir; um fífil og sóley má sama segja, en um heiðargrösin flest má segja, að þau séu gull þó glói ekki. Fögur eru vor fjöll á sumardegi! Hér uppi yngist maður í annað sinn og kastar ellibelg. Hér er maður hálfu nær himnaríki og hverfur eins og úr öðrum æðra heimi niður yfir mæðunnar moldargreni.

Burt með lúa, sút og svefn,
svali fjallahringur!
Lifnar Iðunn, Lofn og Gefn,
ég leik við hvern minn fingur!

Mér liggur við að vorkenna útilegumönnunum, alt nema þjófnaðinn. — Þeir skyldu nú aldrei hafa stolið sauðahópnum þeim í gærkveldi, sem Gvendi sýndist að væri eltur norður fyrir brúnirnar! Gudda kemur. En séu þeir enn í frelsi, þá lætur þeim nú lífið. — Þú munt nú tekin að lýjast af dagsins þjáningu, Gudda sæl, hvíldu þig nú og hrestu sansa þína við skoðun sköpunarverksins. Hvernig lízt þér á?

Gudda:

Æ, hvernig ætli mér lítist á nema skammarlega! Það er eins og öllu skammoti aftur; í mínu ungdæmi mátti hér taka tvær tunnur troðnar á dag, en þarna er nú pokinn minn, trú' ég, — æ!

Sigurður:

Öllum gömlum fer aftur, Gudda mín.

Gudda:

Ætli mér hafi farið aftur! Því fyrir utan það sem gigtin ætlar mig lifandi að drepa, þá er ég nú hreint að segja búin með sjónina; um heyrnina tala ég nú ekki. Ojæa, veröldin hefir lengi versnandi farið, það er von að alt sé orðið ónýtt og upp urið. Í mínu ungdæmi fékk hann Árni sálugi undir það hálfan annan fjórðung smjörs undan hverri á um sumarið. Ætli það verði ekki nærri um aldurinn á henni Guddu og veröldinni!

Sigurður:

Svo þér þykir skepnan mín, sem náttúrunni hafi hnignað! Þykir þér hún ljót?

Gudda:

Ha — er hvað? — Alt eintómt grjót? Þú verður að tala hærra, ég er löngu búin að týna heyrninni, æ.

Sigurður:

Finst þér náttúran orðin ljót, sagði ég.

Gudda:

Æ, ég veit það ekki. Mér sýnist kerlingarsvipur kominn á alla hluti. Ég mætti muna tvennar tíðirnar. Æ, ég ætla nú að tylla mér niður við tjaldið.

Fer.

Sigurður:

Hvíldu þín lúin bein.

Jón og Gvendur koma.

---

### 3. atriði.

Sami. Jón og Gvendur.

Sigurður:

Laglegur poki, Jón sæll, en lítilfjörlegt mun þér þykja þetta starf.

Jón:

Ojirjór, létt verk er það og löðurmannlegt, og heldur vil ég lemja landsynninginn utan úr yztu leitum en gutla við þetta grefils fitl í sólskininu.

Sigurður:

Satt er það, sonur, önnur vinna mun þér hentari, það fer illa að ég fæ ekki að nota karlmensku þína í aðrar þarfir.

Jón:

Þú hefðir, húsbóndi sæll, átt að sjá til mín í fyrra vor, þegar ég barði Danskinn á Bakkanum.

Gvendur:

Blessaði Jón sterki, segðu aftur frá þeirri sögu! Voru þeir ekki átján?

Jón:

Þegiðu hvelpur! — Ég stóð í búðinni og beið meðan asnastintinn lét á kútholuna. Tveir danskir slánar stóðu við borðið hjá mér og voru eitthvað að bafla, og varð mér í óaðgæzluleysi að spíta nálægt hægra eyranu á öðrum þeirra. Jæa, þeir fara þarna að mólastéra mig meinlausan upp úr þurru.

Sigurður:

Þú hefir varla týnt hjartanu strax, hugsa ég.

Gvendur:

Hvernig töluðu þeir upp úr votu? Hvað sögðu þeir?

Jón:

Annar helti brennivíni á kútbotn og skaut síðan víninu upp í augun á mér og sagði: Tigðu tað, bolaði skraddinn! segir hann, en hinu rak hnefann á nasir mér. Og í því ég segi: slóstu mig? fæ ég sitt undir

hvern. Ég sé nú ekki betur — segi ég — en þið ætlið að berja mig, og áður en ég sleppi orðinu, gefur mér annar bumluhögg í miðja pönnuna með hausnum eins og hrútur, svo mig hringsundlaði. Þá segi ég —

Sigurður:

Nú, hvaða serimoníur, hvað átti það orðskviðasafn að þýða meðan verið var að lúberja þig og það við menn, sem ekki skildu eitt orð í þínum formála?

Gvendur:

Ég skyldi hafa talað við þá með tveimur hrútshornum. —

Sigurður:

Þegi þú drengur; segðu frá Jón.

Jón:

Þá segi ég: Bíðið þið piltar, dugunarlítið, — segi ég. Og um leið hafði ég náð taki í annan, svona: Kastar Gvendi upp á öxlina á sér. En tekið hinn svona: tekur í brjóstið á Sigurði.

Gvendur:

Æ, þú — þú meiðir mig, Jón sterki, Jón trölli, Jón Þorgeirsboli!

Jón

sleppir Gvendi og Sigurði:

Og svo hef ég á báðum rekspölinn út úr búðinni, ofan mölina, niður kampinn, fram fjöruna, út á Háuhlein og kaffæri báða eins og hvelpa, hana nú!

Sigurður:

Rétt er nú það, og stinnur ertu víst þegar á stað er komið. En fékkstu enga bölvun fyrir braliið?

Jón:

Mikið stóð til; kaupmaðurinn ætlaði að láta binda mig, því þegar ég kom heim frá sjónum var ég þyrstur, og bað um messuvín eða eitthvað svalandi, en asnastintinn setti fram sírupstrog, en þegar ég ætlaði að fara að smakka á, stakk hann höfðinu á mér á kaf ofan í, og það var þá bannvítis tjara.

Sigurður:

Það var allt lakara, þar lék Danskurinn illa á þig, Jón!

Jón:

Við þessar svaðilfarir og skráveifur fór þeim að þykja ég aðsúgsmikill í búðinni, því ég barði hvern með öðrum, án þess að spyrja um þjóðerni eða manngreinarálit. En úr höndunum á þeim slapp ég á hestbak og hleypti burt, og þá var móður á Jóni!

Gvendur:

Hefir Danskurinn horn? Mér heyrðist þú segja, að hann berði eins og hrútur.

Gudda

kallar frá tjaldinu:

Þegiðu Gvendur, húsbóndinn vill tala!

Sigurður:

Þú slapst mátulega, Jón góður. En því miður

er nú lítið orðið eftir af Íslendingum; áður voru víkingar og önnur afarmenni hræddir við þá, en nú dregur hver sjóþvættingur dár að þeim.

Jón:

Ekki veit ég hvort hann Jón minn lætur útlenzkan mann lengi draga dár að sér, en full-mikill vandi finst mér orðinn að lifa í landi þessu, þegar manni er meinað að gefa kunningja sínum á kjaftinn, þó líf liggi við.

Gvendur:

Hvað er þarna austur á hæðinni? Það er annaðhvort útilegumaður eða skollinn.

Gudda
frá tjaldinu:

Þegiðu, Guðmundur, kondu nú ekki með neinn hégóma hér fram á fjalli!

Ásta kemur frá tjaldinu og er að litast um og horfa.

Gvendur:

Skammi mig ef það er annað en skollans útilegumaður.

Gudda
frá tjaldinu:

Og þegiðu, Gvendur, húsbóndinn ætlar að tala.

Sigurður:

Förum hægt; hvað er líkara en að eitthvað óhreint sé hér á ferli. Jón, mundu að hafa andvara á þér í

nótt, drengur minn, og líta við og við út undan tjaldskörinni.

Jón:

Ég skal minnast þess, húsbóndi sæll, en hefir þú ekki byssuna steytta til taks?

Sigurður:

Byssuna skal ég passa, en hafðu sleddu þína vel brýnda.

Hann talar við Ástu.

Jón

dregur sleddu sína úr slíðrum og fer að brýna í ákafa:

Gaman væri nú að hafa öxina Rimmigýgi eða kylfuna hans Högna.

Gvendur:

Hvað ertu sterkur, Jón sterki? geturðu glímt við mannýgt naut?

Jón

brýnandi:

Heldur tvö en eitt, unginn minn.

Ásta:

Ertu þá alveg viss um, að útilegumenn séu hér nærlendis?

Sigurður:

Hér við jöklana munu þeir halda sig. Og þess ætla ég lengst að biðja þig, að fara ekki oftar langt frá tjaldinu, og láta mig ekki oftar þurfa að leita að þér dauðaleit. Farðu aldrei frá augum mér, og gaktu ekki í svefni.

Ásta:

Í svefni! Því lofa ég þér ekki, pábi; gætt þú mér meðan ég sef, en sjálf skal ég ábyrgjast mig v andi. En heyrðu — hvað á að gera þessum útile mönnum þegar búið er að ná þeim? Á að binda

Sigurður:

Já, og hengja þá líka.

Ásta:

Má ekki eins gefa þeim líf?

Sigurður:

Þjófum — sauðaþjófum má ekki gefa líf.

Ásta:

Ég hélt að það ætti fyrst að bjóða þeim líf, vita hvort þeir bötnuðu ekki, ef þeim væri gert go og gefið frelsi.

Sigurður:

Þér er þá bezt barnið mitt, að spyrja sýsluman inn, hvað lengi hann ætli að setja hann Skugga-Svei á, ef hann nær honum.

Ásta:

Kannske einhver saklaus sé með honum, einhve sem ekkert hefir gert fyrir sér, einhver, sem hefir veri hertekinn barn, einhver, sem Skugga-Sveinn hefir ali upp og heldur hjá sér nauðugum; kannske einhve piltur af góðum ættum, ungur og laglegur piltu saklaus og góður — væri það ekki óttalegt? Gæti þa ekki skeð?

Sigurður:

Barnaskapur, Ásta mín. Á fjöllum búa ekki nema morðingjar og sauðaþjófar. Förum svo til hvílu; þú fylgir mér.

**Sigurður fer og Ásta á eftir honum dauf og niðurlút.**

Jón:

Eitthvað er hér óhreint Guddu-tetur, því í fyrri nótt hrökk ég upp við bölvið í honum Þorgeirsbola.

Gudda:

Og ég trú' ég vissi af því, og heyrði til þín korrið.

Gvendur:

Geturðu ekki glímt við tvo Þorgeirsbola?

Gudda:

Þegiðu Gvendur! nei, við svoleiðis bola glímir enginn — æ! Þeir eru sleipir átaks eins og kvelja eða marglytti úr sjó, rýjan mín.

Gvendur:

En var það víst — geturðu blótað þér, Jón sterki, upp á það þú sæir hann?

Jón:

Ég sem talaði við hann í svefnórunum.

Gudda:

Og ekki veit ég nema ég hafi fengið smérþefinn af þess háttar líka um dggana. Það er ekki langt síðan að hann Skinnastaða-Móri hvekkti mig.

Jón:

Skinnastaða-Móri? Þann draug þekki ég ekki, o
þekki ég þó fram undir fjörutíu.

Gudda:

Ég kom út í fjós nóttina fyrir Kyndilmessu, þv
sú hjálmótta var búin að þroka meir en þrettán sólar
hringa. Nú, nú; en þegar ég — æ! — þegar ég lyl
upp hurðinni, þá er allt á tjá og tundri í fjósinu
kýrnar búnar að slíta sig upp af klöfunum; standa
þarna bundnar saman á hölunum og alt brotið og
mölvað milli básanna; ljósið sloknar á kolunni, og
fjósið fullt með eldglæringar — æ! En þetta var nú
ekki neitt —

Jón:

Já, skrolli hefir gengið á hjá þér, Guddu-ræfill.

Gvendur:

Fylgdi þér aldrei sjálfri draugur, amma mín?

Gudda

slær Gvend utan undir:

Æ, æ! Fyrirgefi þér, illgresið þitt, sá sem vanur
er!

Jón:

Nú, áfram kerlingar-tetur.

Gudda:

Nú, nú; rétt í því, að ég er að losa skepnurnar,
veit ég ekki fyrri til, en fjóshurðin frá fjósinu kemur
fljúgandi inn úr dyrunum, lendir í stoðinni, fer þar í

tuttugu stykki, og eitt brotið lendir hérna á mér, en ekki þér, og það var mest gustukin, því síðan hef ég hvorki getað tekið mig aftur í lærinu né á sönsunum! æ.

Jón:

Og ræfillinn! Ekki fyrir það, hver maður með hálfum vitsmunum má sjá, að þú ert tröllsliguð manneskja.

Gvendur:

Hvernig gat hurðin tröll-sliðrað á þér sansana?

Gudda:

Þegiðu úrþvættið þitt, Guðmuudur, húsbóndinn vill sofa!

Jón:

Það hef ég margreynt, að hvorki duga kraftar við draug, sé hann, sem menn segja orðinn fullveðja eða magnaður, né heldur venjulegur bænalestur. Bezta úrræðið hygg ég muni vera að blóta í bræði og skirpa um leið duglega frá sér; því síðan ég fór að hafa þá stöðugu reglu að taka upp í mig, hefir mér furðanlega tekist að skirpa frá mér óhreinu?

Fer.

Gudda

klappar Gvendi:

Syngdu nú versin þín, Gendi minn, um leið og þú legst niður. Fer.

Gvendur
**skar sér:**

Það er bezt ég syngi sultarbænina.

**Raular:**

Hrindi nú öllum háska frá
heilagur Páll og Maríá,
englar fjórir og Absalon,
Ögmundur helgi og Salómon;
svo skal ei hræðast álf né ár,
útburði, tröll né sultar-fár.
Þá mun ég aftur upp staðinn,
endur-raulandi lofsöng minn,
blessaðan matinn borða strax:
berja-skyr, drafla, mjólk og lax.
Þessa bæn orti séra Sveinn,
sá hana les ei stendur einn.

**Fer.**

**Sviðið er mannlaust litla stund.**

Haraldur
**kemur:**

Þetta er tjaldið; mundu þeir vera sofnaðir? Hvar skyldi hún sofa? Ég hét henni að fara varlega. Ég vil bíða hennar hér við háa klettinn. Ó, ef hún skyldi ekki koma!

**Fer.**

**Eftir litla stund kemur Ásta út úr tjaldinu, gengur fram á sviðið og litast um.**

### 4. atriði.

Ásta ein, síðan Haraldur.

**Ásta:**

En það ástand, sem ég er kominn í! Ég hef enga ó. Er þetta draumur, sem byrjar með býsnum og oku, breytist um stund í sól og sumardýrð, en endar ógn og myrkri? Hann er í flokki Skugga-Sveins, og ver eða hvað á þá að frelsa hann? Ó, að hann kæmi vo ég gæti varað hann við leitarmönnunum í tíma! g segi honum að hlaupa beint í austur — langt, ngt, langt! Ætli hann eigi engan guð yfir sér! Ó, ð ég skuli ekki mega launa honum lífgjöfina og verða onum hjálparengill, eins og hann var minn, þegar ann tók mig úr klettinum. Ég vildi að hann faðir ninn hefði þá séð til okkar; ég vildi að nú væri þoka g ég hengi aftur föst, og faðir minn kæmi að og æti ekki hjálpað mér, fyr en Haraldur kæmi. Ó, þið eginfjöll, búa þá engar heillavættir í hlíðum þessum g háfjöllum?

Syngur:

Hjartað, því slærðu svo hart og svo ótt?
heyrðu mig, þögula, friðsæla nótt!
heyrðu mig, himinn, svo heiður og blár
:,: heyrið mig dalir og fossar og ár. :,:

Heyrðu mig hulda und hrynjandi foss,
sem harmana þekkir og ástir og koss,
og heilagar vættir um hamranna geim,
:,: sem háskanum bægi frá mannanna heim. :,:

Einasta vininn minn yður ég fel,

annist hann fyrir mig, gætið hans vel;
á yður ég heiti og hrópa og bið:
:,: Haraldi veitið þér trygðir og grið! :,:

Haraldur
kemur fram á sviðið og tekur undir:

Haraldi veitið þið trygðir og grið!

Ásta:

Ó, ertu kominn! Það á að taka þig, forða lífinu Haraldur. Heill flokkur vopnaðra manna er að leita ykkar.

Haraldur:

Er svo komið? Laust trúi ég því, að þeir nái okkur Ögmundi; við höfum enn einhver ráð.

Ásta:

Hvað hyggist þið fyrir?

Haraldur:

Við hlaupum í fylgsni eða upp á jökla; við kunnum báðir handahlaup.

Ásta:

En ef þeir komast í skotfæri við ykkur! Ó, hvað ég er hrædd.

Haraldur:

Heldurðu við missum lífið, ef við yrðum fangaðir?

Ásta:

Útilegumönnum er aldrei gefin grið. Heyr mig

nú: haf ráð mín og frelsaðu líf þitt með flótta austur eða norður yfir jökla. En þegar vetur legst að, skaltu og vinur þinn leita til fremri húsanna í Dal, og gættuð þið látið þar fyrirberast meðan vetur er sem harðastur. Ég á nokkrar kindur með marki föður míns, en með rautt dregið í eyra, og eru þær ykkur heimilar.

Haraldur:

Ekkert angrar mig nema það, að verða að hverfa frá þessum stöðvum og sjá þig svo aldrei framar.

Ásta:

Far nú og forða þér! Þá koma dagar og þá koma ráð.

Haraldur:

Ekki er mér um að flýja meðan enginn eltir. Ég finn líka vel, að eftir þetta uni ég aldrei framar á fjöllum, og verði ég ekki fangaður nú, verður mér náð í annað sinn, því að nauðugur mun ég flýja eða renna.

Ásta:

Þá verður fundur okkar beggja hjartasorg eða bani.

Haraldur:

Nei, bæði munum við lifa. Ég er óhræddur. — Grát þú ekki. En munt þú sjá mig standa á gnýpunni yfir bænum í Dal þegar sól roðar völlinn. Þá kveð ég, en þú tekur undir.

**Kveður:**

Geng ég fram á gnýpur og geigvæna brún,
:|: djúpan lít ég dalinn og dáfögur tún. :|:

Kveður lítil lóa, en leiti gyllir sól,
:|: í hlíðum smalar hóa, en hjarðir renna á ból. :|:

Bær í björtum hvammi mér brosir á mót,
:|: manstu vin þinn mæra, munblíða snót? :|:

Ásta:

Hrædd ég heiman stari á helþrungin fjöll;
:|: frost býr þar og fannir og forynjur og tröll. :|:

Brjóst mitt bifast trega, ég bið fyrir þann
:|: heiðarsveininn hýra, sem hjartað mitt ann. :|:

Haraldur:

Sástu fríði svanni, in sumarblíðu kvöld
:|: fagra fljúga svani með fjaðra gullintjöld. :|:

Ásta:

Sá ég svani fljúga með söng og vængjadyn.

Haraldur:

:|: Þeir þér kváðu kveðju frá kærustum vin. :|:

Ásta:

Gott á fuglinn fleygi, sem fjötra engin bönd;

Haraldur:

:|: en fótur vor er fastur, er fljúga vill önd. — :|:

Bæði:

Þó fótur vor sé fastur, er fljúga vill önd,
:|: ástin vor er eilíf og aldrei þekti bönd. :|:

Ásta

**tekur í höndur Haraldar:**

Farðu þá vel og heill! Forðaðu þér, og mundu mig og húsin á dalnum!

**Jón sterki kemur hlaupandi frá tjaldinu og kallar:**

Útilegumaður! tökum hann, tökum hann!

**Flýgur á Harald, sem varpar honum niður.**

**Sigurður kemur og miðar byssu á Harald; Ásta hleypur í fang Haraldi. Sigurður hikar við.**

Jón

**bröltir á fætur:**

Það var lán, ég hafði ekki slys!

Haraldur

**kallar:**

Skjóttu ekki!

Ásta:

Eða skjóttu bæði!

**Tjaldið fellur fljótt.**

---

## 5. atriði.

**Hellir Skugga-Sveins.**

Sk.-Sveinn:

Mundu þeir Ögmundur vera stroknir frá mér fyrir fult og alt? — Mér er óglatt, hvað ber til, ekki hef ég kvillasjúkur verið um æfina, eða mundu það vera mannafylgjur, sem að mér sækja, eða ásækja mig nú elliglöp? Ekki má því leyna, að daprir gjörast nú draumarnir. En burt með hégiljur; enginn má sköp-

um renna. Ill hefir æfin verið — eintómt heljar-hrakviðri, en verri en ill yrðu afdrifin, ef bleyður bygðarinnar skyldu nú eiga yfir mig að stíga. Mundi þeim heldur hlægja hugur, þó blauður sé, ef þeir mætti leika við minn gaddaða grástein eins og rakkar við þúfu. En þótt ég sé illvirki kallaður og illu heilli alinn, er eigi örvænt að örlögin unni mér þeirrar einu líknar, að ekki hlakki slíkir hrafnar yfir hræjum mínum. Von er mér förli nú flest, margur hefir verið um einn, einmani hef ég átt í æfilöngum ófriði, fyrst við sjálfan mig, meðan samvizkan hjarði, en síðan við Guð og menn, hungur og þorsta, hret og harma, heift og dauða, ógnir og endemi. Og loksins kemur hún Elli að leggja karl að velli.

**Ketill kemur inn flumúsa.**

Ketill:

Vopnaðir menn við dyrnar!

**Hark úti fyrir.**

Sk.-Sveinn

**þrífur atgeir sinn:**

Bregðum saxinu! Höfum mann fyrir okkur!

Ketill:

Hvar á ég að standa?

Sk.-Sveinn:

Að baki mínu! Dugðu nú, ella er dauðinn vís.

**Lárenzius og bygðarmenn koma með brugðnum vopnum og nema staðar þegar þeir eru komnir inn.**

Lárenzíus

í því er hann sér Svein:

Heima er skolli! Fram, fram!

Sk.-Sveinn:

Gakk nær, glópaldinn!

**Hvorirtveggja horfast á litið bil; þá hlaupast þeir á og falla tveir fyrir atgeiri Sk.-Sveins.**

Ketill

**fellur og kallar:**

Líf, líf!

**Tjaldið fellur, en vopnabrak heyrist litla stund.**

# FIMTI ÞÁTTUR.

---

## I. atriði.

Stofan í Dal, sem í fyrsta þætti.

Gudda, síðan Sigurður.

Gudda

situr og svæfir barn. Raular:

Fram á regin-fjallaslóð
firðar ljótir búa;
þeirra bygð er þeygi góð,
þyrstir mjög í sauðablóð
eru þeir og engan guð á trúa.

Kunna þeir með kænsku sið
kvikfé ná í haga,
kveykja eld við kletta-rið,
kjötið steikja logann við,
síðan stolnar sauðahnútur naga.

Þegar bóndi burtu frá
býli fer og vífi,
koma fram úr fylgsnum þá
fólin leið og bæjum á
æra fljóð og ota löngum hnífi.

Stendur upp með barnið; Sigurður kemur fasmikill.

Sigurður:

Burt, burt! ekkert barnagaman á ferðum! Lárenzíus kemur með útilegumennina!

Gudda
um leið og hún haltrar fram á sviðið:

Ætli ég megi rýma þó — æ! En sé síðasti dagurinn upprunninn, er ykkur líklega bezt að upphefja mig líka — hengja mig, meina ég, því fyrir herranum er ég líka sem ein hölt og herfileg hundtík, án fórnar og friðþægingar — æ, æ!

Fer með barnið.

Sigurður
einsamall:

Og loksins tókst Lárenzíusi að höndla þessa hræfugla. Skyldi ég þá engar skaðabætur fá af öllu því ógrynni, sem fanst í hellinum? En ætli það fari ekki alt í konginn, eins og vant er, og ætli mínar bætur verði ekki þær einu, að lána gálgatréð og horfa á Sveinka hengdan? Til hvers — í alvöru að tala — mundi þessi henging vera? Hvernig væri að dæma slíka pilta til lífs, en ekki til dráps, til lífernisbóta og betrunar, í stað þess að hrapa þeim til horngrýtis? Mér er nú öll reiði runnin síðan ég sá þennan fjallavarg feldan og bundinn; Lárenzíus minn hugsar allt harðara, í hans augum er öxin og gálginn verndarar lands og lýða. En fari sem má um fantinn Svein. En hvað skal segja um hinn unga manninn, sem gafst upp fyrir mér? Hvað skyldi verða gjört við hann? Aldrei hugði ég útilegumann og illvirkja hafa slíkt

yfirlit, eða mun Ásta segja alt satt um hann? Kallar: Ásta!

Ásta kemur.

---

## 2. atriði.

Sigurður og Ásta.

Sigurður:

Er það sönn saga, að þessi ungi útilegumaður hafi hjálpað þér úr ógöngum?

Ásta:

Úr ógöngum! Hann gerði miklu meira. Hann hreif mig úr dauðans helgreipum. Ég ýki það ekki, að bjargið, sem ég hékk framan í var 20 eða 30 faðma hátt. Þú hefðir átt að sjá það, þvílíkur ógnar-voði: það hvein og sauð þokusjórinn í flugbjörgunum fyrir neðan mig; ég hékk þarna á annari hendinni, rétt komin að því að sleppa takinu, en óttalegt eggjagrjót undir, hver einasti steinn eins og hárhnífur; ég hljóðaði og hljóðaði; allt hringsnerist; ég legg aftur augun; Faðir vor, sagði ég, slepti takinu og vissi ekki af mér.

Sigurður:

Mikil ósköp! Guðs mildi var að piltinn bar að, eða hvað gerði hann? Vissirðu það? Var ekki liðið yfir þig? Var þetta ekki draumur?

Ásta:

Draumur? Allt þetta draumur? Vissirðu ekki, að ég viltist í þokunni?

Sigurður:

Vissi ég það, því ég var farinn að leita eftir þér dauðaleit, en ég meinti draum sakir vondrar samvizku, að fara í óleyfi mínu frá tjaldinu, og svo þykist ég sjá og vita, að dreymt getur þig dagdrauma, dóttir sæl.

Ásta:

En fyrir hverja sök? — heldur þú það sé sakir dagdrauma — að ég stóð á tali við ókunna piltinn? Heldurðu mér hafi annað gengið til, en þakklætið fyrir lífgjöfina? En, seg mér, hverju vilt þú launa honum? Þú reynir þó víst af ýtrustu kröftum, að varðveita hann frá, að komast undir manna hendur?

Sigurður:

Er hann ekki fyllilega kominn undir manna hendur? Eða heldur þú, að hann Lárenzíus sleppi honum órefstum?

Ásta
um háls föður sínum:

Láttu hann þá strjúka! Góði faðir minn vertu nú veglyndur, og launaðu honum það, að hann frelsaði þitt einka-barn. Láttu ekki hann Lárenzíus vita af honum!

Sigurður
ýtir henni frá sér:

Viltu gjöra hann föður þinn ólukkulegan? Veiztu ekki, að lögin skipa manni, sem fangar eða geymir sakafólk, að ábyrgjast það, ella verða sjálfur sekur?

Ásta
stillir sig:

Þar gjöra lögin þig bæði að ódreng og ættlera, og ekki hefðu gömlu hetjurnar þolað þessi lög. Ég skal leysa hann í þinn stað — með einhverju móti.

Sigurður:

Yfirheyrast skal hann fyrst, og farðu hægt, þetta er hættuspil; farðu varlega, dóttir!

Ásta:

Farðu hægt, farðu varlega — hugleysisins vanaviðkvæði! Fer.

**Lárenzius kemur fasmikill; hann hefir vinstri hönd í umbúðum og er meiddur á kinn; með honum er skrifari, sem heldur á bók og ritfærum.**

---

## 3. atriði.

Sigurður, Lárenzíus, skrifarinn, síðan Haraldur og Jón.

Sigurður:

Velkominn! Það má sjá, að þú hefir í stórræðum staðið. Ertu mikið sár?

Lárenzíus:

Skeinur, en ekki sár, vinur! Og satt er það, seigur varð Sveinn, drap tvo mennina, en særði okkur hina alla; og ekki varð hann tekinn fyr en atgeir hans brotnaði í falnum. Hólapiltar liggja báðir í sárum.

Sigurður:

Slæm tíðindi eru það. Hverja drap hann?

Lárenzíus:

Sigurð í Öxl sterka og Árna Austfirðing, en er það satt, að þú hafir tekið barnungan og laglegan mann á grasafjallinu?

Sigurður:

Já, og stóð tæpt að ég gæti handsamað hann; ég ætlaði að skjóta hann, því Jón sterki varð að engu, og hinir urðu ekki vaktir; en hún dóttir mín hjálpaði mér, því —

Lárenzíus:

Hún Ásta?

Sigurður:

Já, hún Ásta litla; hún hljóp í fang honum og hélt fast; ég miða og miða, en þori ekki að skjóta hennar vegna, og maðurinn kastar vopnum sínum og gefst upp.

Lárenzíus:

Og hann hefir ekki lagt til síðan? Þú átt röska dóttur.

Sigurður:

Og hefir ekki lagt hið minsta til síðan. Hann er laglegur unglingur í sjón, og mjög ólíkur útilegumanni; en annars talar hann fátt við mig. Ég þykist vita, að þú yfirheyrir þá vel, áður en þú dæmir þá, einkum þó þenna unga mann.

Lárenzíus:

Til þess er ég nú kominn hér á þingstaðinn, að

þeir í dag verði yfirheyrðir, síðan dæmdir, og loksin á gálgann festir.

Sigurður:

Þá virðist mér, að fyrst liggi fyrir, að þú prófi mál míns fanga, eða skal ég ekki sækja hann nú þegar Eða hvar eru þínir piltar?

Lárenzíus:

Menn mínir gæta þeirra hér í bæjarsundi. En fær þú hingað fant þinn, og kalla tvö vitni eða vert annað sjálfur.

**Sigurður fer. en Lárenzíus og skrifarinn setjast hægra megin við borðið.**

**Sigurður. Haraldur og Jón sterki koma.**

Lárenzíus

**sprettur upp og dregur sverð sitt:**

Hví gengur maður þessi laus? Bindið hann þegar!

Haraldur

**býst til að verja sig:**

Enginn skal mig binda!

Lárenzíus:

Í járn skal hann setja!

Sigurður:

Ég vil mann þenna ábyrgjast, þótt laus sé.

Lárenzíus:

Í bönd skal hann! Hvar eruð þið? Þú, Jón, taktu manninn!

Jón
**hikar sér:**

Já — ef þér gangið framan að honum; ekki er hann mitt meðfæri.

**Lárenzíus otar sverðinu fyrir brjóst Haraldi, en hann slær það úr hendi hans, en Jón hefir um leið tekið hann að aftanverðu hryggspennu. Ásta hefir á meðan þetta gerist komið inn.**

Ásta:

Kyr, Jón; kyr, Haraldur!

Haraldur:

Mér er haldið!

**Slítur sig lausan, svo Jón fellur.**

Ásta:

Kyr, Haraldur!

Lárenzíus og Sigurður:

Heitir hann Haraldur?

Ásta:

Já, og gjörið fyrir Guðs sakir, að leggja ekki hönd eða bönd á hann að svo komnu máli, heldur kallið mig, ef hann er ekki spakur. **Fer.**

Jón:

Skömmina hafði ég nærri því haft af honum, en ég féll á sjálfs míns bragði. Sáuð þið, hvernig ég tók hann?

Sigurður:

Þegi þú hér!

Lárenzíus
**sezt við borðið og skrifarinn hjá honum, sem skrifar:**
Rétturinn er settur í Guðs og kongsins nafni.

Sigurður:
Amen! En þegi þú, Jón, þú ert undirvitni.

Jón:
Þá vil ég spyrja sýslumanninn, hvort mér sem undirvitni sé ekki óhætt að segja amen upp á Guðs og kongsins vegna?

Lárenzíus:
Þegi þú, Jón! — **Til Haraldar:** Hvað heitir þú?

Haraldur:
Haraldur.

Lárenzíus:
Hvers son ertu?

Haraldur:
Það veit ég ekki; Ögmundur segir að ég mun vera Haraldsson.

Lárenzíus og Sigurður
**líta hvor á annan:**
Haraldsson?

Haraldur:
En Sveinn útilegumaður hefir alið mig upp norður í Hrauni, og kallað mig sinn son.

Lárenzíus og Sigurður:

Sinn son?

Haraldur:

Já, en ég vil ekki hans sonur vera. Spyrjið hann Ögmund.

Lárenzíus:

Hver er þessi Ögmundur, eða hvar er hann?

Haraldur:

Hann er fóstri minn, og ef þið finnið hann, mun hann hjálpa mér.

Lárenzíus:

Við vitum hvar hann muni vera; dyl mig ekki neins, sem ég spyr þig; líf þitt liggur við!

Haraldur:

Hvers viltu spyrja?

Lárenzíus:

Ég veit að Ögmundur hefir lengi fylgt Sveini, sem kallaður er Skugga-Sveinn, og að þið báðir, auk Ketils, hafið lengi drepið menn og stolið fé.

Haraldur:

Við Ögmundur höfum aldrei drepið menn.

Lárenzíus:

En stolið hafið þið fé, og stolið óspart?

Haraldur:

Allir útilegumenn taka fé á fjöllunum.

Lárenzíus:

Vissir þú ekki, að það að stela annara manna fé heitir glæpur og er dráps-sök?

Haraldur:

Ögmundur sagði það líka, en það yrðum við þó að gjöra, þar sem við værum sekir og yrðum fangaðir og drepnir, ef við næðumst.

Lárenzíus
virðir hann fyrir sér:

Hversu gamall ertu?

Haraldur:

Fóstri minn segir mig nítján ára gamlan.

Lárenzíus:

Svo þú hefir aldrei mann vegið?

Sigurður:

Nei, aldrei mann vegið; hann sagði það áðan.

Lárenzíus:

Kantu boðorðin?

Haraldur:

Boðorðin? Hvað er það, — þulur?

Sigurður:

Hörmulega vanþekking! Til Har.: Hver hefir skapað þig?

Haraldur:

Jesús Kristur, en ekki hann Skuggavaldi!

Sigurður:

Drottinn minn! Er það upplýsing!

Lárenzíus:

Hefurðu ekki heyrt: »Þú skalt ekki mann deyða«, og »þú skalt ekki stela?«

Haraldur:

Nú kannast ég við: jú, það eru boðorðin, sem hann Ögmundur segir að þið haldið í bygðinni. Kendu mér þau!

Lárenzíus:

Hafðu nú hægt um þig, þú ert fangi og sekur maður, og viljir þú lífi halda, máttu ekkert ofbeldi gjöra. Heyrirðu?

Sigurður:

Heyrirðu og skilurðu það?

Haraldur:

Verður mér þá ekkert ilt gert?

Lárenzíus:

Þú ert undir minni og kongsins vernd þangað til þinn dómur er fallinn.

Sigurður:

Það líkar mér vel, að þú, Lárenzíus, dæmir hann ekki að svo stöddu.

Lárenzíus

í hálfum hljóðum við Sigurð:

Ég sé strax að það er alþingis en ekki mitt að dæma þenna mann og taka af. Færið hann burt, og sýn mér, Sigurður, hvar þú lætur geyma hans; ég dæmi hann á þína ábyrgð.

Sigurður:

Þann vanda er ég trauður undir að gangast, en vil þó ekki undan skorast.

Lárenzíus og skrifarinn fara, en skilja eftir skjölin; Sigurður leiðir Harald út.

Jón:

Allvel tókst Jóni upp sem undirvitni. En agasamt gjörist nú í héraði þessu og allmikið hefir ágengið. En þó er hryggjarstykkið eftir að hengja þessa hrotta. Skyldi ekki húsbóndinn láta gjöra graut svo sem í erfiðisskyni eftir afarmenni þessi? Mér finst sem allir ættu stríðs- og erfiðisöl að drekka í kvöld: sýslumaður, lögréttumenn, stríðsmenn, vitni og aðstoðarvitni. En nú er að sjá höfuðpaurann hann Skugga, og er ekki frítt fyrir að nú sé hrollur í Jóni.

Fer.

### 4. atriði.

Ásta, síðan Gvendur.

Ásta

kemur inn döpur og sorgbitin:

Það er alþingis, segir hann, að dæma og taka af! Á þessi að verða endirinn? Hvar er þá réttlætið, lífið, vonin, gleðin, sannleikurinn! Og tveir menn settir við dyrnar að gæta hans! Hvað á ég til að gjöra? Enginn hjálpar, enginn sér, enginn heyrir, enginn miskunnar, enginn, enginn, enginn! Fórnar höndunum: Guð minn góður! María Guðs móðir! Allir englar og útvaldir! hjálp, hjálp, rétt í þetta eina, eina skifti! Ég sver, að hann er saklaus! Jesús Maríuson! hjálpaðu honum Haraldi: foreldrarnir hans hafa verið myrtir upp á fjöllum; ég veit það, hann er frændi minn og hans Lárenzíusar líka; á hann að deyja með illvirkjum talinn eins og þú? hjálpaðu, frelsaðu!

Syngur;

Og Blindni og Hatur héldu ráð —
Herrann ræður einn —
Þá grét í böndum guðleg Náð. —
Ó, geym vor Maríu-sveinn!

Til dauða Hatur dæmdi Náð, —
Drottinn ræður einn!
og Blindni félst á bana-ráð. —
Ó bjarg oss Maríu-sveinn!

Og himinborin hné þar Náð, —
Herrann ræður einn! —
Og vel var dulið véla-ráð. —
Ó, væg oss, Maríu-sveinn!

Og Blindni glotti Hatur hló, —
Herrann ræður einn! —
Þau grófu Náð í grafar-þró. —
Ó, gæt vor, Maríu-sveinn.

Frá gröfinni spratt upp geislarós,
Guð, þú ræður einn! —
Hún bar of heiminn himneskt ljós,
Ó, hjálp oss, Maríu-sveinn!

**Hún sezt við borðið. og hallast fram á höndur sínar í djúpum þönkum. Gvendur kemur og litast um; hann er hálfhræddur og með fáti.**

Gvendur

**við sjálfan sig:**

Hvar má ég vera, hvar má ég standa, hvar má ég horfa? Alt er fult með útilegumenn, stríðsmenn og sýslumanninn og húsbóndann! Og svo þessi nýji stóri maður, sem hótar að deyða mig ef ég sæki ekki hana Ástu. Æ ég skelf á báðum beinunum. Hvar er hún.
**Kallar:** Ásta! Amma mín!

**Ásta hrökkur við og stendur upp.**

Ásta:

Hvað viltu? hvað gengur að þér, piltur?

Gvendur:

Þú átt strax að koma fram í beitarhús til stóra — stóra mannsins. Hann ætlar að deyða mig.

Ásta:

Hvað segirðu? »stóra mann«? »deyða þig?«

Gvendur:

Hann elti mig, ógnarstóri útilegumaðurinn, og náði mér við Tröllagil, en gerði mér ekkert. Hann er eins sterkur og hinn var eða sterkari. Hann bar mig undir hendinni yfir ána.

Ásta:

Ég skil þig ekki, drengur! Þú segir: hann vill finna þig, hann vilji deyða þig.

Gvendur:

Já, farðu strax, hann vill finna þig.

Ásta

rankar við:

Spurði hann þig einskis?

Gvendur:

Jú, um manninn, sem fangaður var á grasafjallinu, og bað mig fyrst að ná honum.

Ásta:

Og hvað sagðir þú?

Gvendur:

Ég sagðist ekki geta það, og þá sagði hann mér að sækja þig, annars dræpi hann okkur öll og brendi allan bæinn.

Ásta:

Eru hestar nærri? Er hann í fremri húsunum?

Gvendur:

Hann er í heimari húsunum.

Ásta:

Þá í Jesú nafni! Seg þú engum hvar ég er, — nei, komdú líka! Fer.

Gvendur:

Æ, ég þori ekki, ég skelf, en ég þori ekki að vera heima heldur, þeir kunna að hengja mig í ógáti.

Fer.

---

## 5. atriði.

**Lárenzíus, skrifarinn, Sigurður með Ketil bundinn og tveir varðmenn, sem leiða Sk.-Svein bundinn milli sín. Lárenzíus og skrifarinn setjast við borðið eins og fyr, en hinir standa andspænis.**

Lárenzíus

stendur upp:

Loksins hefir þá réttvísinnar óþreytandi armur náð ykkur og leitt ykkur fyrir ykkar dómara með báðar hendur bundnar. Nú hafið þið útrunnið ykkar illa og ólukkulega æfiskeið og skuluð nú í dag meðtaka dóm og maklega hegningu!

Sk.-Sveinn

glottandi:

Fallega byrjar hann, piltar! Þarna sérðu nú sýslumanninn, Ketill; hversu lízt þér á blikuna?

Ketill

kjökrandi:

Æ minnstu' ekki á hann! Æ, nú er fokið í öll skjól!

Sk.-Sveinn:

Bítum á jaxlinn, Ketill!

Lárenzíus
til Skugga-Sveins.

Gamli, gráhærði þrjótur! Víst ertu nú góðu heilli mér í greipar falinn, og er þér nú mál að gleyma harðúðinni, eða sérðu ekki, hvar að baki þér liggur hinn langi glæpaferill, en fram undan fáein fet sérðu gálga þinn gnæfa!

Sk.-Sveinn
til vitnanna:

Heldur er gorgeir í honum piltar! Til Lárenzíusar: Víst muntu nú happi þínu hrósa, drengur minn, að sporhundar þínir urðu nú loks til þess, að yfirstíga Skugga-Svein, en ekki skaltu, væskillinn, ætla, að þú kúgir mig eða hræðir, eða hyggur þú, að hann gamli Sveinn gugni eins og viðvaningur, sem í fyrsta sinn hefir fangað og flegið einn horgemling? Nei, vita máttu það, að stelandi, rænandi, drepandi og tortýnandi hefi ég allan minn aldur alið, eins og lög stóðu til, og er ég nú orðinn bæði reyndur maður og gamall; máttu því ekki ætla mér þá skömm í elli minni, að ég gugni fyrir snærisþáttum þínum.

Lárenzíus:

Samvizkulausi maður!

Sk.-Sveinn:

Svo er nú það. Ég fór í flaustri að heiman; samvizkan mun hafa eftir legið á hillunni.

Ketill:

Æ, espaðu ekki ólukku manninn! Sérðu ekki, að hann ætlar að hengja okkur lifandi!

Sk.-Sveinn:

Kastaðu nú kálfshjartanu, Ketill, eigi mun síðar vænna!

Lárenzíus
með hárri röddu:

Heyrið dauðadóm! Hinn alræmdi, gamli stigamaður og útlagi, Sveinn, nefndur Skugga-Sveinn, skal tafarlaust festur upp og hengdur á gálga, samkvæmt áðurgengnum alþingisdómi.

Sk.-Sveinn:

Ætlið þið að gleyma garminum honum Katli?

Ketill
æpir:

Æ, minnstu ekki á mig! Hljóðar. Æ vægð; vægð!

Lárenzíus
sem fyr:

Sömuleiðis og í annan máta, dæmist rétt að vera, að útilegumaðurinn Ketill, sem hér stendur, skal sæta sama lífláti. Skulu báðir líflátnir fyrir sólarfall í kvöld! Burt með þá og látið þá hafa prestsfund og skriftir einn klukkutíma.

**Sigurður fer með Ketil, sem æpir, en Sk.-Sveinn setur er minst varir rykk á sig, snýr að Lárenzíusi og segir með ógnandi rödd og með mestri áherzlu síðast:**

Sk.-Sveinn:

Illu heilli eru nú hendur þessar harðbundnar, því ella skyldi ég drepa þig, Lárus, sem frænda þinn forðum, já, drepa ykkur alla. Nú er mér alls varnað og illur dauði fyrir dyrum, sem vonlegt er, því illur hefi ég verið. Vel og gott, þá skuld skulu allir gjalda. En þið, bleyður og ættlerar ykkar feðra! hjarið enn við skaða og sköinm! Bundið hafið þið Svein, en ekki unnið: dauður eða lifandi vitja ég minna frjálsu fjalla.

Þar skal ég drottna,
og djarfur veifa
fári' og feiknstöfum
fjalls um bygðir
hækkar sig:
meðan særingum
svörtum mögnuð
rödd mín rymur
í regin helli!

Fer út með varðmönnunum.

Lárenzíus
við skrifarann:

Fá mér prótókollinn; sjálfur skráset ég dómsatkvæðið.

Skrifar; dálítil þögn.

## 5. atriði.

Sömu. Inn koma Sigurður, sem leiðir Ögmund. Ásta og Haraldur, Gvendur, Gudda.

Lárenzíus:

Hvað er þetta? Hver er þessi?

Sigurður:

Fjórði útilegumaðurinn, Ögmundur að nafni, kveðst gefast upp viljugur. Leyf Ástu minni að tala.

Ásta:

Þessi maður gafst upp fyrir mér; hann hefir brýnt erindi að bera upp fyrir ykkur; en þyki það miklu máli skifta, sem ég vona, og fái hann ekki full grið, hefi ég ábyrgst honum, að hann fái frían gang út úr bæ þessum og megi verja höndur sínar.

**Á meðan Ásta talar, stendur Ögmundur afsíðis og talar hljótt við Harald.**

Lárenzíus:

Nú rankar mig við: Þessi maður er Galdra-Mundi hinn vestfirzki.

Sigurður:

Rétt og satt, nú kannast ég líka við lýsing hans frá alþingi!

Lárenzíus
til Ögmundar:

Tala þú maður, þú hefir lausar hendur.

Ögmundur:

Ég er hér kominn til að vitna, og legg við höfuð mitt, að þessi ungi maður er saklaus og heitir Haraldur.

Sigurður:

Haraldur.

Lárenzíus:

Haraldur, já, við vitum það; hvað meir?

Ögmundur:

Við, hann og ég, höfum saman verið í samfleytt 15 ár í flokki og fylgi með Skugga-Sveini; fyrir löngu vildum við slíta félagsskap við hann, en sáum ekki fært sakir útlegðardóms míns og landsins hörðu laga.

Lárenzíus:

Ef þú veizt ætt Haraldar, þá seg skjótt!

Ögmundur:

Það er grunur minn, sem hin unga mær hefir nú staðfest bendir til Ástu, að þessi Haraldur sé systursonur þinn, sýslumaður, og frændi þinn, Sigurður bóndi, og að faðir hans og nafni og móðir hans hafi látið líf sitt af völdum Skugga-Sveins.

Sigurður:

Heyr, heyr!

Lárenzíus:

Sannanir, sannanir!

Ögmundur:

Dáin voru þau bæði áður en fundum okkar Sveins bar saman, en Haraldur var þá á fóstri norður í Ódáðahrauni hjá vinum Skugga-Sveins, og var þá talinn 5 vetra. Ekki gat Sveinn ættar hans, en heyrt hefi ég hann tala um einhvern harðsnúinn mann, sem hann kvað Harald líkjast, og hefði sá drepið bræður Sveins tvo, en fallið sjálfur og fleiri honum skyldir.

Lárenzíus:

Sannanir, maður!

Ögmundur:

Kannast þú við kingu þessa?

**Réttir að Lárenziusi.**

**Lárensíus og Sigurður skoða kinguna.**

Lárenzíus:

Mig fer að gruna margt; kinguna þekki ég að vísu ekki, en nafn móður minnar, Karítas, er grafið á hana. Veiztu meira?

Ögmundur:

Nú á ég ekki fleiri sönnunarmerki, en Haraldur hefir þau sjálfur. Mér virðist sem hann sverji sig í kyn ykkar beggja; markið mín orð, þótt ég sé ykkar heimskastur.

Lárenzíus:

Eitt merki, eitt tákn enn, eina litla sönnun enn, þá eruð þið báðir frjálsir menn!

Ögmundur:

Fram svo með móðurmarkið, fóstri minn!

Haraldur

**flettir upp á handlegg sínum:**

Hér má sjá merki á mér, en hvað má það hjálpa?

Lárenzíus og Sigurður:

Hvað þýðir merkið?

**Ásta bendir Guddu.**

Gudda:

Æ, ég er nú örgust allra, en lofið nú kettinum

að líta á konginn! Lítur á handlegginn á Haraldi. Svo sannarlega sem ég og þið viljum komast í himnaríki, er þetta sonur hennar Sigrúnar sálugu og hans Haraldar heitins, sem úti urðu á fjöllunum forðum.

Lárenzíus, Sigurður og Ásta:

Heyrum, heyrum!

Gudda:

Já, heyrið og heyri himinn og jörð, að þessi maður, sem bið kallið útilegumann, er ykkar frændi eða svo gott sem sonur. Hann var á öðru ári, þegar þau lögðu með hann á stað norður fjöll, en ég hafði átt við hann um veturinn; grætur. Æ, guð og hans góðir englar! hvað allt rifjast nú upp fyrir mér! Lof mér kyssa blessaðan blettinn! Sárt var að skilja við þig og hörð hefir hún versla verið þér og þínum. En gáfaður er himininn að láta móðurmerkið þitt og mig afgamla eiga eftir að útvega þér endurlausnina!

Lárenzíus:

Hvar er hönd þín Haraldur? Faðmar hann! Kom heill í herrans nafni!

Sigurður:

Já, heill þér, frændi! heill úr tröllahöndum!

Kyssir hann.

Lárenzíus
til Ögmundar:

Og þú, Ögmundur, haf þökk fyrir þína dáð; því hefði ég sízt trúað, að sekur maður mætti slíkan

drengskap sýna. Tak hér hönd mína. Þín gamla sekt mun nú að mestu í gleymsku fallin, og kæri þig ekki aðrir og fyrir aðra sök en sauðastuld í útlegð, þá skal mér að mæta. Skal þinni sýknun lýst á næsta þingi. Gakk sem frjáls maður, hvert sem þú vilt!

Ögmundur
**yfirkominn af fögnuði:**

Er ég frjáls? er búið að leysa mig — gefa mér upp sakir, dauðamanninum! Já, ég er frjáls og laus! **þreifar á sér, fórnar höndunum.** Ég þoli ekki við! Og Haraldur laus!

Vitið þið hvað er að vera týndur og svo til náðar tekinn?

**Flýtir sér út.**

Gudda:

Og jæa, tuskan, það er von til, að hann yrði feginn, hrætetrið! bara hann væri frómur og ráðvandur!

**Ásta og Haraldur, Gudda og Gvendur tala saman bak við hina.**

**Varðmennirnir koma inn hlaupandi.**

1. varðmaður:

Skugga-Sveinn bað að heilsa!

Lárenzíus:

Er hann dauður?

1. varðmaður:

Já, en ekki á gálganum.

Lárenzíus og hin öll:

Hvað, hvað?

1. varðmaður:

Hann varð óður, sleit sig lausan, sló Jón sterka og þrjá aðra í rot, og hljóp á stað með Ketil, við á eftir, en hann varð skjótari og steypti sér með Katli í Jökulsá.

Lárenzíus og Sigurður:

Í Jökulsá?

1. varðmaður:

»Hittumst á Kili«! kallaði hann síðast, en þá tók þá iðan og sáum við það síðast til þeirra, að Skugga-Sveinn hvarf með Ketil á bakinu niður í Gullfoss.

**Varðmennirnir fara.**

Sigurður:

Þar átti hann að lenda!

Haraldur og Ásta:

Og svo átti hann að enda!

Lárenzíus:

Heiti sá foss héðan af Skuggafoss. Nú, heyrið til: þetta fer allt að sköpuðu. Úr því mér átti ekki að auðnast, að standa yfir hans höfuðsvörðum. Ég sótti mál þetta með helzt til miklu kappi, og mun því maklegt, að þessi gamli garpur fari með sinn hlut af sæmd minni. Illur maður var hann, en afreksmaður þó. Nú, þótt hann færist í fossinum, mun rödd hans þar lengi rymja í eyrum einfaldra manna.

Sigurður:

En ekki munu þeir færri verða, sem sjá munu þykjast skuggann hans Skugga og heyra hans kempuraust á Kili.

Lárenzíus
til Ástu:

Og þú unga frændkona, haf sérstaka þökk fyrir þína framkomu. Kjós þú sjálf laun þér til handa, eða munt þú ekki þótzt fullsannað hafa, að elskan er hreystinni hraustari og kænskunni betri, þótt blind sé kölluð!

**Tekur Harald við aðra hönd en Ástu við hina og snýr sér til áhorfendanna.**

**Ögmundur kemur í því inn.**

Lárenzíus
syngur:

Nú hressi menn og huggi
sinn hug á landi hér,
hinn gamli grimmi Skuggi
í Gullfoss steypti sér.

Allir:

Nú reynir fossinn róminn
við raman Skugga-Svein,
og þylur dauðadóminn
við dáin víkings bein.

Lárenzíus
til Haraldar:

Nú friðarfaðm ég breiði

þér fagri systurson,
í frjálsra félag leiði
með fyllstu gleðivon.

Haraldur og Ögmundur:

Nú kvíði' ég ei né kvarta
nú kem ég til mín sjálfs,
af gleði hlær mitt hjarta,
því héðan af er ég frjáls.

Ásta:

Mér sýndi þokan svarta
hve sviplegt lífið er;
en blessuð sólin bjarta
á bak við myrkrið fer.

Lárenzíus og Sigurður:

En fyrst þú fjötur leystir
af fjallasveinsins hönd,
þér Ásta einni ég treysti
hann aftur setja í bönd!

Allir:

Og fyrst hún fjötur leysti
af fjallasveinsins hönd,
sér Ásta einni treystir
hann aftur setja í bönd.

Tjaldið fellur.

